# DIARIUM CHRI
# ANUM.

Edur

# Dagleg Id-
# kun af øllum DRottens-
# Dags Verkum, med Samburde
Guds tiju Bodorda vid Skøpun-
arverked, og Miñingu Nafn-
sins JEsu.

Skrifad og Samsett Af
## S. Hallgrijme Peturs
Syne, Anno 1660.

Editio III.

Selst Alment Innbunded 7. Fiskum.

Þryckt a Hoolum i Hialltadal, Af
Halldore Erykssyne, Año 1747.

Psalm. 33. v. 6.

Himnarner eru fyrer ORD DROTTens giörder, Og fyrer ANDA hans Muñs allur þeirra Her.



# Suñudags Jdkun.

SA Fyrste Dagur Vikuñar, er Suñudagureñ, hañ er sa Fyrste Dagur Skopunar-Verksins. A hwnum byriade DRotteñ vor alla Hlute af ongvu Efne, fyrer Ord sijns Almættis ad skapa med þvi moote sem Moyses greiner, Genes. fyrsta. J Upphafe skapade Gud Himen og Jørd, etc. Adur eñ þad ad nockur Dagur vard, Þar næst skapade hañ Liooßed, og adgreinde Liooßed fra Myrkrunum, og Dageñ fra Noottuñe,

Þetta var nu þad fyrsta Dags-Verked DRottens.

NU mijn Saal, med þvi þu af þessu skapada Lioose, hefur Not og Gagn haft fra þeim fyrsta Deige þinnar Fædingar, allt til þessa Tijma, þa giæt tu ad, hvad þitt Verk æ ad vera nu i Dag, þar a moote. Þetta Verk giørde DRotten hier til Nytsemdar og Gagns, giordu þvi aptur i Dag þitt Verk til Þienustu og Þocknunar þijnum Gude.

1. Athuga þad ad Gud skapade Liooſed, og gaf þad Jordunne, og þeim Skiepnum sem skapast skylldu, til Upplysingar. Þigg þu þessa gooda Giof med Þacklæte og lofa og prijsa Lioossens Skapara,

2. Minnstu ad fyrst þad var Guds Verk ad skapa Liooſed, þa sie þar a moote þitt Verk, i Lioosenu ad lifa og framganga so sem þvi vel soomer og hæfer.

Þar eru til sierdeilis Sexslags Lioos. 1. Lioos Natturunnar. 2. Lioos Gud-

doomlegt

doomlegt, 3. Lioos Naadareñar. 4. Lioos Trwareñar. 5. Lioos Hugskot sins. 6. Lioos Dijrdareñar.

1. Lioos Natturlegt lyser Lijkam-anum, þad þacka þu Gude, og Misbrwka þad ecke til Synda og Glæpa.

2. Lioos Guddoomlegt er Dijrdeñ DROTTens, i hvorre hañ bijr, til hvors Lioosſ ad eingeñ daudlegur Madur kañ ad komaſt. Geysleñ þessarar Dijrdar er HErrañ vor JEsus, Lioos af Lioose, hañ er vort Lioos lysande oss til eilijfs Lijfs, þetta Liooſed elſka þu ollu framar.

3. Lioos Naadareñar er Guds Ord, þad yd)ka þu, og epter þvi gacktu fram, i ollu þijnu Lijferne og Athæfe.

4. Lioos Trwareñar er stadfast Hiart-ans Traust, sem þu epter heilogu Guds Orde, i Nafne JEsu Christi, setur a þañ lifanda Gud, þad nær þu a DRottens Fyrerheitum, so þad skijne fagurt i good-um Verkum.

5. Lioos Hugskotsins er þijn Skynseme, þenar

heñar neittu, þier og odrum til Gagns, eñ misbrwka hana ecke odrum til Skada.

6. Lioos Dijrdareñar er eilijft Lijf; Lattu þig af Hiarta epter þvi laanga og kapp-kosta ad neyta so hvors Liooſsens, sem Gud þier gefur, ad þu um̃ sijder niaota meiger þeſs eilijfa DyrdarLiooſsens.

J þridia lage hygg þu ad, Gud adgreinde Liooſed fra Myrkrunum, Adgreindu eirneñ Verkeñ Liooſsens fra Verkum Myrkraña, Verkeñ Liooſsens elſka þu, og koſtgiæf Daglega Herklædum Liooſsens ad ſkrijdaſt. Verkeñ Myrkraña hata þu og kaſta þeim fra þier; Tiædu þig vid Liooſid Guds Orda, i Liooſsens Barna Selſkap, ſo þu verder med þeim, Liooſsens þeſs eilijfa Hluttakande.

J fiorda Mata hugleid þu þad mijn Saal, þa Gud leit a Liooſid ſem hañ hafde ſkapad, þa ſaa hañ þad var gott, þaug Ord ſtanda vid hvort DRottens Dagsverk, eñ þar þad verdur i einum Stad undanfellt, þa ſtendur þad tviſvar vid hitt añad, ſtr-

ar þar epter, Kappkosta þu af öllu Hiar-
ta, i Krapte DRottens, og fyrer Styrk
hans Naadar, ad lifa so i þessu Nattur-
lega Lioosenu, og haga so þijnu Skylnings
Lioose, fyrer Guds Guddoomlegu Lioose,
epter DRottens Orda Lioose, med skiært
lioomande Trwar Lioose, ad þad verde fyr-
er Augum DRottens gott hallded og Me-
ted, so muntu fyrer hans Naad, þess eilij-
fa Dyrdarennar Lioosß niootande verda.

Mier virdest so sem þad fyrsta Bodord
DRottens hneigest ad þessu hans fyrsta
Dags-Verke, þviad lijka so sem Himen
og Iord, þa so fyrst Myndud, voru so sem
Efne og Materia til allra þar af myndadra
Hluta. So er Otte DRottens og Elska
til hans, Efne og Upphaf allrar Vitsku,
og Understöðu allra goodra Verka, sem
befolud verda i öllum hinum Bodordun-
um, og þvi hefur Lutherus sett fyrst i Utle-
ggingu hvörs Bodordsins, þesse Ord,
Vier Eigum Ad Ottast Og Elska Gud.
Og so sem Lioosed upplyser og fagurt gior-

er, allt hvad þad a ſkyn, ſo giorer ſoñ Kyñ=
ing þeſs ſaña Guds, (falẽ i þeſſum Ord=
um, Eg Er DRotteñ Gud Piñ) eitt ſtod=
ugt Trwnadar Trauſt a hañ, og oll Good=
verk ſem giord verda epter Bodordum Dr=
ottens, lyſteleg og fogur, þo þau i ſialfu
ſier Veik ſieu. Eñ ſo ſem allt er Oſynelegt,
Oſagurt og Oaſialegt i Myrkrenu; So
eru æn Guds Kyñingar, Guds Otta og
Elſku, og Trwareñar, oll vór Goodverk
Fæanyt, Oſogur og Ogilld, hvorſu Koſtu=
leg ſem þaug kuña ad ſynaſt.

# Nafned.

DEſſe Dagur verdur i voru Maale
kalladur Suñudagur og þad epter
Heideña Maña Viiſu, hvorier ad
Sooleña ſo ſem Gud tilbædu, vegna ſiñ=
ar Fegurdar og kroptugrar Verkunar a
Jordũe, hvoria þeir og i voru gomlu
Maale, kolludu Suñu; Þetta Nafned
ma gieſa þier gooda Epterteckt.

Fyrſt viiſar þad þier i Spædoom Ma=
lachiæ

chiæ Spaamans, þar verdur vor Herra JEsus kalladur SoolRiettlæteſins, Mal.
4. Vid Soolena lijker honum og eirneñ hiñ Heilage David, Psalm. 19. Pa Samlijking lautum ockur mijn Sæl i nockrum Portum yferſkoda.
1. Sooleñ er ſu fegurſta Skepna ſem ber fyrer vorar Siooner, af öllum Skepudum Hlutum. JEſus er ſæ allra frijdaſte og fegurſte i ſijnum Heilagleika, og ſkiært ſkijnande Riettlæte, i öllum ſijnum Dæſemdar Verkum, bæde fyrer Guds og riett-trwadrar Saalar Augum.
2. Sooleñ er ſo ſem Herra og Hofdinge allra Himintunglaña, og gefur þeim öllum Lioos og Lioma af ſiñe Byrtu. JEſus er Herra og Hofdinge, allra Himneſkra Hyrdſveita, og af honum hafa þær alla ſijna Prijde, og Fegurd ſo ſem ſijnum Skapara.
3. Sooleñ upplyſer, vermer og þijder Jordena, og giörer hana med ſijnum Il Frioofſama.

JEsus upplijser, vermer og þijder vor Steinblindu og Jskolldu Hiortu, og med Jl heilags Anda gioerer hann þau Friooffsom til goodra Verka.

4. Soolareñar Kraptur nær lijka ofañ i Fylsne Jardareñar, mykiande Frosted sem hindrar Sædesins Grooda, lijfgande Sæded svo þad uppsprette og Avoxt fære. JEsu Christi Kraptur nær og so ofan under Fylsne Jardareñar, mykiande alla Ofurkiælu Daudans, eydande Magt Diofulsins, og hañ lætur alla nidursæda Dauda Lijkame, upp aptur rijsa, og þa Gudhræddu eilijflega Bloomgast.

5. Sooleñ afbreñer, og uppskrælna lætur Hardlendis Grased, þar eingeñ Vokve naaer ad festast. JEsu Christi Reide Hite fortærer umm sijder øllum Ogudlegum Jdrunar og Trwar-vøkvalausum Moññum, sem þverskallast og forherdast moote Naadar Skyne DRottens, og forsmar hañs heilaga Ord og Verdskulldan.

6. Sooleñ er Prijde Himensins, Friofsunar

gunar Kraptur Jardareñar, og Unadsemd Skepnaña. JEsus er Prijde Englaña, Blessan Maña, Unadsemd Trwadra.

7. Sooleñ burtdrijfur Myrkred og gledur med sijnum Liooma, þa sem i Myrkrunum Villt fara, og eckert ma skylast fyrer heñar Hita. JEsus burtdrijfur Myrknr Syndaña, gledur þa sem i Mootlætis Myrkrunum reika, med Liooma siña Nædar Fyrerheita, og fyrer hañs Augsyn, kañ eckert ad vera huled.

8. Sooleñ er sett af Gude, til Teikns og Tijma Adgreiningar. JEsus er öllum Trwudum hid allra vissasta Teikn og Merke Guds Nædar og eilijfrar Sæluhialpar, aller vorer Lijfs og Dauda Medlætis og Mootlætis Tijmar standa i hañs Valde.

Saal miin, hvört siñ sem þu sier þa skopudu Sool skiæra uppreña ad Morgne Dagsins, þa lauttu þier til Hugar koma, hvad Herrañ þiñ JEsus mune i siñe

Himneſkre Prijde fagur vera þa hañ ad Morgne þeſs ſijdaſta Dags, kiemur i Skyum Himens.

Fyrer Soolareñar fegrum Geiſla, liwka Meñ ſijnum Hwſgluggum upp, þa verdur Hwſid fagurt, lyſtelegt og ſkemtelegt. Linktu upp Gluggum Hiarta þijns mijn Saal fyrer Orde DRottens, þa muntu ſiña og ſia þar wt af eina andlega Himneſka Glede og Skemtan.

J añañ Maata kallaſt þeſſe Dagur, DRottens Dagur, og þad vegna þeirra Stoormerkia ſem DRotteñ a þeſsum Viku Deige giort hefur.

Pad fyrſta var Uppbyriun alls Skopunarverkſins, ſem aadur er ſagt.

Pad añad var Utleidſla Jſraels Lijds wr Eydemorkuñe, yfer Aana Jordan, þa ſkipteſt Vatned i tveñt, fyrer Almætte DRottens ſo Joſua leidde Foolked epter Orkeñe og Naadar-Stoolnum, þurrum Footum þar i giegnum, iñ i Canaans Land.

Pridia var Jñreideñ JEſu Chriſti i

Borg-

Borgena Jerusalem a Palma Suñudag, so sem Josua a Palma Suñudag, for med Israels Lijd yfer Jordan 1510 Arum þar fyrer.

Fioorda var dyrdarleg Upprisa JEsu Christi fra Daudum, hvors vegna hañ hellst ber þetta Nafn, ad kallast Drottens Dagur.

Fimta var su mykla Openberan þeirrar Spaadooms Sioonar h:ñs heilaga Johañis, sem hañ uñskrifar i Openberingar Bookeñe.

Siotta er Kieñing Orda DRottens, sem oss verda kiend og openberud, nu a hvorium Suñudeige, og JEsu Christi Lijkama og Bloods Hlutteckning.

DROTTeñ skapade Himen og Jord, fyrst a einum Suñudeige, JEsus Endurskapade oss, og giordest sialfur vort Lijfs, Nædar og Dijrdar Lioos, a sijnum Upprisu Deige, og svo sem eirn Himneskur Josua, og Hertoge Lijfsins, Leider hañ oss med siñe Upprisu, þurrañ, slett-

añ og Hættulausañ Veg, giegnum Dauddans Flood til Himnarijkis. Og fyrer Kieñingu siins heilaga Ords, iñkiemur hañ i vor Hiartans Herberge, og openberar oss Leyndardooma Guds Rijkis.

Mijn Saal, miñstu þessara DRottens Stoormerkia, a þessum Deige, og vert Packlaat. DRottne er þesse Dagur eignadur, Taktu hañ ecke fra honum mijn Saal, Ræntu ecke DRotteñ siinu. Lættu hañ ecke verda þier af þiñe Tilstofnan, meirn Diofuls Dag, þioona þu ecke Dioflenum med Illu og Ogudlegu Athæfe, Prætum, Deilum, Vakmælge, edur ofmykellre Astundan Hölldlegra Hiegoomaskapar Leika, þvi þesse Dagur er DROttens, honum eigum vier ad siingia og spila i vorum Hiortum, og yfer allt frañ, varastu Guds Ord ad Forsmaa nie Forsooma, þvi þess mun DRotteñ þunglega hefna a siinum Dijrdar Deige, sem hier er Skañarlega giort a hañs Pionustu Deige, þess hlijtur Madur med Sorg

ad sakna a Deige Reideñar, sem hañ fyrer Holldsins Fysnar saker forsoomar a Deige Naadareñar, Holldsins þarfleg befolud og leysd Verk, giordu a þeim Sex Virku Dogum, eñ DROttens Verk giordu, og laat þier þau umhugad vera ad giora a þessum DROttens Deige. Eñ þad kallast Verk DRottens, ad heyra Guds Ord, elska þad og idka, og odrum kieña, Naunganum Naudstoddum ad biarga, Gud ad lofa og prijsa, og honum Packer ad giora i Sofnude DRottens, añadhvört med Lijkamanum þar staddur (hvad ecke ætte Viliande ad Forsoomast) edur med Hiartanu, fyrer Gude a Himnum, hvad ei helldur maa gleymast, hvar sem Lijkameñ er staddur, þa muntu faa ad hallda eirn eylijfañ DROTTens Dag, med ollum Guds Bornum i Himnarijkis Dijrd og Glede.

* *   * *   * *
*   *   *

# JESUS.

MJNN Elskulege, Blessade HErra JEsu, þu ert sannarlega sa Dausamlege Verkmeistare þijns Himneska Fodurs, i ollu Skopunar-Verkenu, þvi aan þijn er eckert giort hvad giort er, þu ert þo ecke ad eins Liooſsens Verk-Meistare, helldur og eirnenn þa ertu sialfur þad sanna Lioos, sem upplyser alla Menn sem koma i þennann Heim, þu medkienner þad sialfur seigiande: Eg er Lioos Heimsins, þu hefur þær fegurstu Liooſsens Tegunder i þvi, ad Lioosed skijn Openberlega fyrer ollum, og bannar ongvum sijna Byrtu. JEsu Christe, minn DROTTenn, þu lyser ollum sem þad gyrnast til eylijfs Lijfs, þvi skipar þu og ollum til þijn ad koma,

ma, og þar uppa hieckstu fyrer øllum Openberlega Nakeñ, med wtbreiddum Fadme a Krossenum, so aller mætte þiñar Naadar niota svo eg sem adrer.

Lioosed er su fegursta Skiepna. HErra JEsu þu ert sa Fegurste og Friidaste a medal Mañaña Sona, i Riettlæte, Sakleyse, Almætte, Naad og Myskunseme. Au Lioossens syneft eingeñ Hlutur fagur. An þijn miñ HErra JEsu, er eingeñ Hlutur fagur, allar Holldsins Vellystingar og allt Holldsins Epterlæte og Heimsins, er aun þijn Ofagurt, Olystelegt og Skadlegt, og øll Goodverk Onijt.

Aller glediast vid Lioosed. Herra JEsu, þu ert Lioos mijns Hiarta, vid þig eirn gledst mijn Sorgbitna Sæal og Samvitska.

Myrkraña Ogn og Skielfing, flyr fyrer Lioosenn. Aull su Ogn og Hrædsla, sem mier stendur af mijnum Syndum og Myrkraña Verkum, flijr wr mijnum Huga, þa eg sæ þig riettelega siedañ, miñ goode JEsu, aller meiga þeir vera Ottalauser, sem þig sier Nálægañ hafa, þu blessada skijnanda Fagnadar Lioos.

J Lioosenn þeckia Meñ sig og adra, Miñ HErra JEsu, þa eg sie þig i þiñe beysku Kvøl og Pijnu, þa sie eg þar med miñ Speigel, hvad eg munde hafa ætt vegna miña Synda Eylijflega ad lijda. Þar sie eg og lære ad þeckia þiñ Himneska Fedur, og hañs heitu Hiartans Elsku til mijn, svo sem þu sialfur þar uñ talar, Joh. 3. Só elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf wt siñ

Ein-

Eingieteñ Son, etc.

Meñ falla sier ecke til Skada, þa þeir epterfylgia Liooſenu. Eingeñ fellur ſa i eylijfa Glotun, ſem þier miñ HErra JEſu epterfylger, þvi þu giefur þeim ollum eylijft Lijf ſem a þig trwa.

J Liooſenu rata Meñ þañ rietta Veg. HErra JEſu, þu ert Vegureñ, Sañleikureñ og Lijfed, Eſlauſt ratar ſa rietta Leid giegnum allar Eymder, og ſialfañ Daudañ iñ i þa Himneſku Glede og eylijft Lijf, ſem þier epterfylger.

J Liooſenu ſiaa Meñ þad aldrer var huled. J þier HErra JEſu, ſiaaum vier þaug heitu Myſtunar Jdur vors Guds i hvorium þu hefur vitiad vor, ſvo ſem eitt ſkiært Lioos, uppruñeñ af Hædum, Luc. 1. hvar aun þijn hefdu ad Eylijfu

ollu Mañkynenu huleñ vered, og i þier ſiaxum vier alla leynda Dooma Guds Rijkis, uñ vora Saxluhialp, hverier aadur voru ollum Heime dulder.

Lioosid þverrar ei nie mynkar, miſser og ei helldur neitt af ſiñe Byrtu hvorſu morg Lioos ſem af þvi einu kveikiaſt. Herra Jeſu, Yfer hvorſu marga ſem þu Myſkunar þig, þa lijdur þo þijn Myſkun og Giæſka ongva Skerding, og hvad margar Skiepnur ſem þu forſorgar, þa eru þijn Audæfe ecke ad miñe, þvi þar er noogleg Naad hia þier, og Nægd Fagnadarens, til þiñar hægre Handar. Miñ Herra JEſu, lattu mig þijna veſolu og alls þurfande Skiepnu, faa og odlaſt Not, Gagn og Glede, af ollum þeſſum þijnum Dyrdarlegum, fullkomnum himneſkum Liooſſ Tegundum, hier ſtundlega mier til Leidriettingar og Huggunar, añars Heims eiliflega mier til Glede eñ þier til Dijrdar.

DRotteñ JEſu, þu adgreinder Myr-
kred

kred fra Lioosenu i Skopuneñe. Eins giorder þu i þiñe Kieñingu, þad mœr siar þijnu Samtale vid Nicodemum, þar þu seiger, ad þeir sem illa giora, hate Lioosed, hafande Myrkur Hrœsneñar so sem Skylu siña Illverka. Eñ þeir sem Saũleikañ giora, koma til Lioossens, þvi þeir skam̃ast sijn ecke fyrer sijn Verk, med þvi þo ad nockud meige a þeim vera brestott, boged eda hlyckiott, eda i nockru Ofullkomlegt, eda Ofagurt, þa bœtest þad allt, riettest, fegrast og forbetrast af Lioomа þijns Riettlœtis og þiñar Forþie nustu.

Miñ HErra JEsu; Gefdu mier bœde i Lœrdoome og Lifnade ad geta skynsamlega adgreint Lioosed fra Myrkrunum, svo eg seige ecke þad gooda Vont, nie þad Vonda gott, og ad eg aflegge Verkeñ Myrkrañа, eñ iklœdest Herklœdum Lioossens. Þu adskilder HErra JEsu Dageñ fra Nottuñe, so Maduriñ skyllde a Deigenum viña, og af Dagsviñuñe þreyttur, a Nottuñe hvijlast. Dœmsamleg eru oll þijn Verk,

oll eru þau i Myſkun og Sanleika. Lof, Packer og Heidur ſie þier, fyrer alla þijna Giæſkulega Vorkunſeme og Myſkunſamlega Fyrerhyggiu; Minn DRotten JEſu; Eg veit ad ſvo ſem ſa fyrſte Dagur, hafde bæde Morgun og Kvolld, og epter þinne Skyckun kom Myrkred aptur i ſtaden Livoſſins. So verdur og Dagur minnar Æfe, ſitt Kvolld ad hafa um ſijder. O! Herra Jeſu, lattu þa Umbreyting Liooſſens mijns Natturlegs til daudans Myrkurs ſkie epter þijnu Orde, og epter þinne Skyckun. Var dveittu mig fyrer illum og ſkamarlegum, ofhaſtarlegum, Oforvarandis Dauda.

Nu lietſt annan og hinn þridia Dagen, aptur færa þad fagra Lioos yfer Verolldena, en a þeim fioorda Deigenum vard þad enn fullkomnara, þa bæde lijſte Soolen, Tungled og Stiornurnar, fagurt er þad Natturlega Liooſed, þo hlijtur þad i Daudanum ad Formyrkvaſt. Fagurt er Liooſed Skynſemennar, þo verdur þad ad ſolna. Lyſtelegt er Liooſed Augnana, þo verdur þad ad forblindaſt: Jaa, allt

ſlockngr þad wt i Daudanum. Þad þr-
iggia Daga Liooſed hlytur ad þverra, eñ
þad fioorda Dags Liooſed ſkeinar ad Ey-
lijfu, þa þu miñ HErra JEſu verdur vo-
rt eylijft liöomanda Lioos, og Sool i Upp-
riſuñe vorre, og ſijdañ til Eilijfdar, þar
liooma þeir Riettlætu i krijngum þig, ſvo
ſem lijſande Stiornur ad eilijfu.

J þeirre Sælu Von, lœttu mig miñ
HErra JEſu epter Orde þijnu gladañ i
Fride fara. Þu ſaaſt Herra JEſu, ad
Liooſed ſem þu hafder ſkapad, var gott.
Allijttu nu þad veika Trwar Lioos-Korn-
ed, ſem þu hefur ſiaalfur fyrer þiñ heilaga
Anda, i mijnu Hiarta tendrad, ſvo ad þad
verde af þier gott hallded. Giordu Skil-
nings og Skynſemdar Liooſed mitt gott fy-
rer Augum þijns Himneſka Fodurs; med
þiñe Medalgaungu, og bleſſa þu mier Dag-
ſins, Liooſſens og Soolareñgr Lioos og
Liooma, og leid mig um ſijder til þeſs eilijfa
gooda Liooſſens, miñ goode Herra JEſu,
AMEN.

Mañ-

# Mannudags Jdkun.

SA Añar Dagur Vikuñar, er Mannudaguriñ, a hönum var þad Verkid DRottens i Skøpuneñe, ad giora Festing Himensins, med hvørre hañ Adskilnad giorde, a millum Vatnaña, þeirra sem under Himnenum eru, og hiña sem eru yfer Festinguñe

O! AR a moote miin Saal, skal nu i Dag vera þitt Verk. Fyrst, ad þu aasiaaer og lijter Himeneñ upp yfer þier, hvor ad er eitt fagurt og forpriidelegt DRottens Handaverk, Jeg vil aalijta Himeneñ, þad Verked þiña Handa, sagde David, Psalm. 8. Hañs Dæme eigum vid ad fylgia. DRotteñ siaalfur skipade Abraham ad lijta upp til Himens, þa hañ fieck Fyrerheited, um Margfioldañ sijns Sædis. Lijttu og lijka til Himens, miin Saal, og lærdu þañ sem hañ hefur

hefur skipad, ad Ottast, so sem Almatt-ugañ HErra, og elska sem eirn goodañ Fodur, hvor ed eitt soddañ fagurt Tiallo wtbreidde, yfer þiinu Hofde, og varnar þar med þeim efre Votnunum yfer þig ad falla so þau meiga ecke dreckia þier, helld-ur skamtar hañ Goodgiarnlega ofañ til þijn, Himensins Regned sem þier og oll-um Skiepnum til Nota og Parfenda, vokvar og frioofgar Jordena, og þacka þu so Milldum og Goodgiornum Forsorga-ra. Þar med þa gled þig i þijnu Hiarta, af Tilhugsun þess eylijfa Lijfsins, þviad hafe Gud so forprijdelega Tialldad yfer þijnu Hofde i þessu þijnu Eymdafulla og Auma Lijfe sem kallast maa eitt Prææl-dooms Hreyse, hvad myklu Prijdelegar mun hañ þa Tiallda bæde yfer þier og kriingum þig, i þeirre eylijfu Dijrdeñe, sem med riettu maa kallast JEsu Christi Brwdar-Hws? Siaa þu og Gaum-giæf, mijn Saal, hvad fagurt Tiallo DRotteñ breider yfer þig, þier bæde til

Sagns og Virdingar. Breid þu þar a moote under han̄ þijña Hiartans audmiwka Hlijdne, og Audsveipne, so sem Jsraels Men̄ breiddu sijn Klæde under Christum, honum til Æru og Pocknunar. Giært og ad, hvad þarflegañ Vokva DRotten̄ sender hier af Himnum ofañ; Send þu honum aptur Jlmande Vokva þiña heitra Jdrunar Taara, audmiukrar Bænar, og Hiartanlegrar Packargiordar.

Par næst athuga þu, Mijn Saal, ad DRotten̄ adskilde þau efre Votnen̄ fra þeim nedre, og sette eina Obifanlega Festing þar i midle. J Heilagre Ritningu verdur Sorgeñe samlykt vid Vatned, so sem David seiger i Psalm. 69. Votnen̄ taka iñ ad reña, ad miñe Saalu.

Tveñslags Sorg kañ hier til ad falla, ein Lijkamleg, sem merkiast maa fyrer þau lægre Votnen̄, hvorium DRotten̄ hefur sett Takmark, yfer hvort þau kuña ecke ad komast. Þessare þiñe Lykamleg-

re Sorg, settu Takmark i Guds Orde, og lattu hana þar ecke yferganga. Vered ecke Hugsiuker, sagde HErrañ vor JEsus hia Matthæum. Þa David Sorgade Naan siña Kveña, og allra siña Eigna, og hañ med ollum siinum Moñum griet med beyskum Hug, þa stendur, hañ hafe styrkst i siinum Gude; Þad var eitt gott Takmark, og Obifanlegt Firmament. Þess giættu vel miin Saal.

Oñur þiin Umsorgun er Andleg, hun lijkest vid Votneñ þau efre, þvi hun geingur hærra. Yfer allt fram ættu fyrer þvi Andlega Umhyggiu ad hafa, og þijna Andlega Eymd og Saalar Neyd skylldir þu alltijd Sorga, þvi Sæler eru þeir sem Harma, Eñ under þessa þijna Sorg, settu Firmament og Festingu JEsu Christi Naadar Fyrerheita, þvi þeir sem Harma, skulu Huggader verda, Matth. 5. Og i Oⁿ Nottne hofum vier Riettlæte og Hugg un, þvi hvor sem Truer og verdur skiirdur, sa skal Hoolpeñ verda. Lattu ecke

helldur Umſorgun þiñar eylijfrar Velferdar falla a Jordena, og ſnwaſt upp i Umſorgun fyrer Tijmanlegre Velgeingne, Oþorf Bwkſorg er oſſ af Chriſto boñud, Hañs Ord ſkulu vera Feſting a mille þeirrar Andlegu og Lijkamlegu Umſorgunar, þvi ſo ſeiger hañ: Leited fyrſt Guds Rijkis, og hañs Riettlætis, Matth. 6.

J Pridia Lage, Saal mijn, Alijttu Almættc DROttens, ſem ſo helldur þvi þunga Vatne i Loptenu, Hvad ſkyllde hañs þvilijku Almætte Omogulegt vera? Skyllde hañ ecke kuña þijnu Hiarta vid ſig ad hallda, og leida þiñ Huga til Himnarijkis og Himneſkra Hluta Epterlaungunar, þo þijn Nattura ſie bæde þung og treg? Par fyrer Gled þig i hañs Almætte, eñ Ottaſt þo fyrer hañs Magt og Vellde.

Mier virdeſt eñ nu, ſem ad þeſſu Verkenu meige hneigiaſt þad Añad og Attunda Bodord DROttens, þviad ſo ſem DRotteñ ſette þau efre Votneñ langtum hærra eñ þau ſeu, a Jorduñe eru, ſo hef-

ur hañ og sett Heilagt Nafn sitt i hina hædstu Tign og Virding, þvi þo hier a Jorduñe eige þeir ypparlegu Herrar, og aller Yferbodarar sijna Virding og Heidur ad hafa, þa skal þo, og æ, Nafned DRottens, um̃fram̃ allt, og øllu framar, ad virdast, heidrast og Hælignast, og med þvi ad Gud er siaalfur Sañleikureñ, og hañs Nafn æ, og skal, af oss, og hiaa oss heidrast og virdast, þa eigum vier Sañleikans Naaunganum ad uña, hañ ad styrkia, honum fram̃ ad fylgia, og a mille þeirrar Virdingar, sem Guds Nafne er skyllugt ad veita, og þeirrar sem Moñunum hæfer, æ jafnañ þetta Firmament og Festing ad standa. Framar ber ad hlijda Gude eñ Moñum, Act. 5.

## Nagned.



AGur þesse nefnest vor a medal Maanudagur, hafande sitt Nafn af Tunglenu. Pad kañ og ad gie-

ſa þarfſamlega Eptertekt. Athugum þar fyrer mijn Saal, nockrar þær ſierleguſtu Tunglſins Tegunder.

1. Tungled hefur ſijna Byrtu af Sooluñe (ſo ſem þeir Lærdu meina) añars er þad Byrtulauſt. Þu byriar nu i Dag (ſem er þiñ fyrſte Ervidis Dagur i Vikuñe) þijn Naudſynia Verk, vita ſkalltu þad vijſt ad ſo ſem Tungled er hallded Lioos lauſt aan Soolareñar yferſkijnande Byrtu, So eru oll þijn Verk og Jdia, Gude Oþeck og med ollu Bleſſunarlaus, aan JEſu Chriſti yferſkijnande Naadar og Bleſſunar, þvi ſo ſeiger hañ ſiaalfur, aan mijn fære þier einſkis Goods orkad, Minſtu þvi ad byria og giora oll þijn Verk i Nafne JEſu, i riettre Tru med Bæn og Packlæte, epter Guds Orde, Fylg þvi og gior þad ſem Guds Ord bijdur og leyfer, eñ varaſtu allt hvad þad bañar, og ecke lofar, hvorſu ſem þad ſijneſt Abataſamt og Gyrnelegt. Laat oll þiin Verk framkoma af Truñe, og ſkie i Kiærleikan-

um

um til Nœungans.

2. Tungled er Ostoduat, þad ymist vex edur mijnkar. So er oll Jardnest Gleðe, og Holldsins Epterlæte Ostodugt og Fallvallt. Varastu þvi ad festa Gyrnd þijns Hiarta vid svo vallt skijnande Glis-Holldsins og Heimsins. J Openberingar-Book St. Johañis, lijkest Christne Guds vid Kviñu, þa sem Tungled hafde under sijnum Footum, þvi eirn og sierhvor Christiñ Madur a Fallvallta Forgeingelega Hlute lijtels ad virda hia þessare Himnesku Dijrd, og Sœlu. Eitt er Naudsynlegt sagde JEsus, þa Maria sat vid hañs Fætur, og hlijdde hañs Kieñingu.

3. Tungled geingur allra Himentunglaña fliootast. Minstu hvad flioott Mañsins Æfestunder lijda, svo þær eru opt fyrre a Enda komnar, eñ sialfañ varer, Forsooma þvi ecke Tijmañ gott ad giora, ſr Oforsoomadur verde Tijmeñ, aptur vid Goodu ad taka. Ef þu i nockru forser þig edur syndgar, hvad optar skiedur

 eñ

eñ vera ætte, (þvi midur) þa flijttu þier sem skivotast, a medañ Tijme Naadareñar yfirstendur, fyrer saña Jdran, rietta Trw og alvarlegt Apturhvarf fraa Syndeñe, ad naa aptur Guds Naad, fraa hvorre þu varst vikeñ (Lijka sem Tungled med hestugu Hlaupe, so sem flijter sier til þess Stadar aptur, sem þad fraa veik) So þu faaer Fyrergiefning Syndaña, ædur eñ sa Dagureñ uppreñur, sem aungvar Fyrergiefningar er a Von.

4. Tungled er viist fagurt i sijnu fullu Skyne, þo misser þad sijna Byrtu fyrer Sooluñe, þa hun uppreñur. Fogur er Luckan Veralldareñar, og Epterlæted Holldsins, eñ hvad er hun ad reikna hiaa Hiñneskre Dijrd og Sælu? Riettlæte goodra Verka er fagurt i Mañaña Alite, eñ Riettlæte JEsu Christi, skijn þo eñ skiæraera fyrer Guds Auglite. Pad var su fegursta Kviñuñar Prijde i St. Johannis Openberingum, ad hun var Jklædd Sool ūñe. Sa er þvi Fegursta Brwdkaups

Klæde

Klæde prijddur, sem er Jklæddur þvi Alskijnande JEsu Christi Riettlæte.
5. Allar Skiepnur fagna meir Soolareñar Byrtu, eñ Tunglsins Liooma, þvi þad skijn Daufara.
Uña skylldei þu Saala mijn myklu framar, þeirre fagurt skijnande Byrtu eylijfrar Sælu, eñ þvi Daufstkijnande Gliste Heimsins Fallvalltrar Velgeingne. Ad glediast i Naad DNottens, er myklum Mun Ageklegra eñ af Veralldlegre Skiemtum ad kiætast. Gled þig þvi Saal mijn, med Jomfrw Marin Anda i Gude Heilsugiafara þijnum, Luc. 1.
6. Tungled verkar myked a Jorduñe nidre, þo hefur þad siñ Samastad a Himnum uppe. Ervida verdur þu og rækia þitt Embætte, og hafa Christelega Umhyggiu fyrer þier og þijnum, a medañ þu ert a Jorduñe, þad er þijn Skyllda, eñ þo halltu þig hier so sem Giest og Framande, eñ þitt rietta Heimile hafdu og hallt a Himnum, þar eige þitt Hiarta, Gyrnd og
 Hug-

Hugreñingar heima. Eiru Christenn Madur lijr og þreyter siñ Lijkama hier a Jorduñe, eñ hvijler Hug og Hiarta sitt a Himnum, glediande sig jafnañ i Von epterkomande Sælu, med þessum Hugreñingum, kantu þitt Ervide Liettbærara ad giora.

# JESUS.

MJñ HErra JEsu, þu ert sa blessade og Almattuge Festingar Himensins Verk-Meistare, asamt med þijnum himneska Fødur, og heilogum Anda, þad sijna mier bæde þijn eigen Ord og Verk, þitt Ord i þessu Verkenu var, Fiat; Verde ein Festing. Sama var þitt Ord vid þa Canversku Kviñu, Matth. 15. Pa þu sagder, Fiat; Verde þier soo sem þu villt, Þijn eigen Verk sijna mier þad og eirneñ, þvi þa þu ferdadest med þijnum Læresveinum, yfer uñ Vatned Genezareth, i Land þeirra Gadarenita, þa sloo yfer einum hostugum

Storm

Stormvinde, undañ Festingar Himnenum, sa ed Vatned so okyrde og uppæste, ad þad villde yfergeysa sitt Takmark, og slaa iñ i Skiped a medañ þu svafst, eñ strax þu vaknader, og hastader med þijnu Orde a þad hvortveggia, þa hlijddu þessar Hofud-Skiepnur þier furdanlega, svo þar giorde strax miked Logn, lijka sem bæde Vindur og Vatn bligduduft og fyrer-yrde sig, ad þau so diarflega hefde geinged nærre sijnum Skapara, Matth. 8. Hvar fyrer miñ HErra JEsu, þu ert eflaust sa same DRotteñ, sem hiñ heilage David uñt syngur og seiger : DRotteñ, Himnarner eru þijn Handa-Verk Ps. 102. Og i ödrum Stad ; Hañ drottnar yfer Siafarens Ædegange ; Jaa, HErra JEsu, þu hefur Sioonum eitt Takmark sett, yfer hvort hañ kañ ecke ad komast. O! Herra JEsu, nidurþagga þu fyrer mier, alla ageysande Freistingar Storma, og settu sialfur eitt Takmark öllum mijnum adþyngiande Mootgangs og Hormungar-

Votnum, og kom þu þvi med þijnu Almætte so til Vegar, ad allar mijnar Freistingar fære goodañ Enda, og allt mitt Mootlæte þiene mier til hins besta. Miñ Herra JEsu so sem þu ert Festingar Himensins Verk-Meistare, so ertu siaalfur Firmamentum, þad er ein obifanleg Stadfesta miñar eilijfrar Fridþægingar og Saattargiordar vid Almaattgañ Gud, þiñ himneska Fodur, hvor ed i þier er vid mig og alla trwada Meñ i Heimenum, eilyfléga forlijktur, þu ert sa faste og ohræranlege Grundvollur miñar Saaluhiaalpar, þess gled eg mig af Hiarta. J voru Maale kollum vier þeñañ Himen Festing, sem vier Nafne kollum vier og eirneñ Vijge, Slot og sterka Kastala, þar Meñ meiga ohulter vera og veriast, fyrer Ahlaupe Ovinaña. HErra JEsu, þu ert þad orugg-asta Vijge, fasta Slot, Festing og Kastale, og vort besta Athvarf, svo nefner þig hiñ heilage David Ps. 91. Oviñanleg Borg er vor Gud, seiger þijn heilog Christ-

ne,

ne, bæde um þig og þiñ himneſka Fødur, og heilagañ Anda. Ohnlturer eg, fyrer øllum mijnum Ovinum, ſynelegum og oſynelegum, medan eg fæ ad hijraſt vnder þeſſu allra tryggvaſta og trauſtaſta Feſtingar Vijge. Miñ HErra JEſu vertu mier eitt ørugt Vijge, ſo eg meige ætijd þangad Hælis leita, og eg meige þar oþræddur vera fyrer øllum Ahlaupum Oførſulſins, og Uñſaturs Vielum, miña mootſtødu Maña.

J nockrum Tungumaalum verdur þeſſe Himinſins Feſting kollud Auſsſpeñing, Expanſum edur wtþenſla. HerraJEſu, þu þander þijnar baadar wt=teigdar og togadar Hendur, og alla þijna bleſſada Lime a Kroſſenum, þa maatte kallaſt, ad þu værer ſialfur, ordeñ eitt Expanſum, edur Uthenſla, edur ſo ſem wtþaned Firmament. Æ! mig fyſer ad ſkoda gior miñ bleſſade Herra, i þeſſa þijns agiæta Handa=verks Samlijkingu.

2. Sa wtþande Feſtingar Himen, ham-

lar Votnunum þeim efre ad falla yfer Jördena heñe til Skada. Herra JEsu, þiñ wtþaneñ Kross-Fadmur, hamlar sañarlega Guds Reide-Floode, yfer mig aumañ Syndara ad falla, þess er eg fullviss.
v. A Festingar Himnenum wtbreiddum, eru margar fagrar Leyptrande og Lioomande Stiornur. Þeir vijsu Stiornumeistarar seigia, ad þær hafe kroptuga Verkan a Jorduñe. O Rotteñ miñ JEsu, a þijnum wt teigdum Lijkama voru morg Saar. Þeir gomlu reikna þaug hafe vered hier uñ 5240. Æ! hvad fagurt lioomaþau oll fyrer Augum miñar Saalar? Allar Himensins lijsande Stiornur, kuñа ecke med allre siñe Prijde, so mitt Hiarta ad gledia, sem eitt af þijnum minstu Pijslar-Saarum.

O! Herra JEsu, uñ þu mier ad glediast af Benium þijnum, alla mijna Lijfs Tijd; Ja, i miñe Dauda Tijd, og ad eilijfu. Ef ad Stiornurnar krapta nockud a Jorduñe, þa krapta JEsu Christi

Saar

Saar þo Þusundfallt meira. S. Thom-
as ma bera þar Vitne um̃, þa hañ Trw-
ardaudur, took a Pijslar saara Aurunum
JEsu, vard hañ svo lifande i Trw, An-
da og Orde, ad hañ med einum breñan-
de Huga, giorde hina merkeleguſtu Jatt-
ning og sagde: DRotteñ miñ, og Güd
miñ, Joh. 20. Jaa, miñ Herra JEsu,
þijn heilög Pijslar-Saar, verkudu ei ad
eins ofanfyrer sig, so sem Stiornurnar,
helldur verkudu þau og og eirneñ uppfyrer
sig til Himnaña, edur a Hüñum, þvi
þau bliјdka og Fridstilla Almattugañ
Gud, vid oss auma Synduga Meñ, og
wtvega oss so eilijfa Saattargiord hiaa
honum.

3. Undañ Festingar Hiñnenum wtbreid-
dum, skamtast öllum Skiepnum Regned,
sem stiller þeirra Þorsta, og vökvar og
frioofgar Jordena. DRotteñ miñ JE-
su, ut af þijnum blessada wt-teigda og tog-
ada Lijkama, flijtur ofañ til mijn þad heil-
susamasta svala Vatn þijns blessada Blo-
ods

vds, sem vtslockur allañ Þorsta miñar þreittrar Saalar, þvi þad hreinsar mig af allre Synd, 1 Joh. 1. Þad er sa Vokviñ sem Friossamt giorer Hiarta mitt til goodra Verka Astundunar, þvi þad hreinsar mijna Samvitsku af Daudlegum Verkum til ad þioona Gude lifanda.

4. Af Festingar Himnenum stendur og Vindblæreñ, Ofurhitanum til Stillingar, og Varmeñ Ofurkuldanum til Mykingar. Miñ HErra JEsu, þu med þijnum alsærdum vt-teigdum Lijkama a Krossenum vtvegader mier hia þijnum himneska Fodur, Jaa þu sender mier siaalfur þiñ heilaga Anda, hvor med sinum Guddoomlegum Jñblæstre hugsvalar mier i Ofurhita Freistinga og Eymda; Og med Varma siñar Guddoomlegrar Astar mijker alla Orvæntingar Kiælu Hiarta mijns, og giorer mig, aadur Jskaldañ, ef ei heitañ, þa þo Varmañ i þiñe Elsku, Bæn og Hiartanlegre Þackargiord og Naungans Kiærleika. O Notteñ miñ JEsu; Lattu mig

nu i Dag og alla Tijma hafa Not, Glede og Gagn af ollum þessum þijnum Velgiorningum, ſoo eg under þijnum wtbreiddum Bleſſunar Fadme vake, ſofe, life og deye, Amen.



# Pridiudags Jdkun.

Hiñ þridie Dagur Vikuñar er Pridiudagureñ, a hønum adſkilde Gud Vøtueñ og Þurrlended, Sioeñ og Landed, ſo ſiaaſt mætte þurr Jørd; Par epter plantade hañ a Jørduñe med ſijnu Almættis Orde, allrahanda Gros og Jurter, og allshcattud Bloomgud Trie, etc.

Nu þetta ættu nu nijin Saal ad þeinkia, og giæta ad vandlega, hvad þitt Verk a nu þaꝛ a moote ad vera, ſem er þetta hellſt og fyrſt, ad þacka þeim goodgiarnaſta Gude, ſem ſo hefur

ollu viiſlega, Vollduglega og þarfſamlega nidurſkyckad, og til Stadar komed. Alldrei ſkyllde Madureñ ſo ſiinum Fæte a Jord ſtiiga, og alldrei ſo þvo ſig i Vatnenu, eda ſvala ſo þar a ſiinum Porſta, og alldrei helldur ſo Gros edur grænkadañ Skoog lijta, ad þeſſara allra Hluta milldur Giafare, og Almaattugur Skapare, hafe ecke ſiina ſkylduga Pock þar fyrer, eñ Gud nade vora Gleimſku, og laate oſs ecke gialldavors Oþacklætis og Athugaleyſis.

J odru lage, miin Saal, minſtu a, ad Syndeñe verdr i heilagre Skrift, ſamlijkt vid Vatned. Vær iñdreckum Daglega Raanglæted ſem añad Vatn, ſeiger hiñ heilage Job i 15. Cap. Lijka ſo ſem Vatned hulde Jordena, ſo hvorge matte neitt Purrlende ſiaaſt, adur eñ DRotteñ bad hvort fraa odru ſkylde. So er ſu Samviitſka, ſem kafiñ liggur i Syndunum, lijka ſem yferfloted Land af Vatne; Saaleñ er þar ſockeñ nidur, ſo ſem i eitt diwpt Haf, hun ſier þar ecke neitt Purrlende Hugg-

unar nie Hiaalpradis, ad festa Foot sijns Trwnadar Traustsa, helldur eñ Owfañ i Nooa-Floode, Genes. 7. Pvi verdur hun uñ sijder, ad falla wr Floode Syndaña, i Flood Fordæmingareñar og forganga so eilijflega.

Mijn Saal, siaa þu nu so til fyrer Herrans Adstod, ad þu þessu þijnu Synda Floode veiter i burt af Lande Samvitsku þiñar, fyrer heita Hiartans Idran, og kalla þu jafnañ med David, Ps. 130 Burt wr Diupenu til DRottens; Og bid med S. Petre, Ad Herrañ JEsus laate þig ecke i Bylgiur Orvæntingareñar og Fordæmingareñar nidur sockva, Skyngstu giætelega epter þijnu Purrlende i Fyrerheitum DRottens, og festu Foot þiñar Trwar þar a.

Pad añad Verked, sem DRottenñ a þessum Deige giörde, var ad frioofga Jordena, med allra handa Grosum, Jurtum, Bloomstrum, og adskilianlegum Haavoxnum og Avaxtar somum Triaam.

Par

Par sier þu eina millda Hond og forsorg- unarsamt Fodurs Hiarta þess lifanda Gu- ds, sa ed bæde Mönnum og Fenade fyrer fram tilbioo, bæde Fæde og Foodur, og Fuglunum Hæle og Athvarf i þeim þyck- bloomgudu Vidargreinum. Lærdu þar af ad styrkia þijna veika Trw, og wtebyrg- ia alla Onytiu Umsorg og Vijlshautt fyrer þijnu Daglegu Braude og Næring; Þviad hafe DRottenn Onn aled fyrer þeim Skiepnum, sem ecke voru þa enn skapadar, svo Fienade og Fuglum sem Mannesklune Hvad myklu meir mun hann þier nu bæde skopudum Endurleystum og helgudum, Naudarsamlega Forsorga, fyrer öllu þvi sem þijn Þorf wtheimter? Giæt ad hvad IEsus hier umm talar i Gudspiallenu, Matth. 6.

Hier framar giæt ad mijn Saal, hvor- su DRottenn þinn Skapare, hefur i þvi hei- laga Skijrnar Vatne og Aflausnenne veitt af Hiarta þijnu og Samvitsku, Vatne Syndanna, og synt þier Purrlende Hiart-

anleg-

anlegrar Huggunar, i sijnu H. Orde og Sacramente JEsu Christi Lijkama og Bloods. Laattu nu þar fyrer Hiarta þitt ecke ofhardna nie uppskrælna i Hyrduleise og Omensku, heldur vid ad fæ ra fram ilmande Jurter Bæna og Packlætis, fogur Bloomstur Dygda og Mannkosta, og þarfleg Gros goodra Verka, og sia so til fyrer Hialp DRottens, ad þad hafvaxna Bloomstur Tried H. Polenmæde meige Grænkast i Alldengarde þijns Hiarta, hvar til þu bid Gud ad giefa þier Naad Heilags Anda.

Enn virdest mier sem þetta Dagsverked DRottens, hafe og sijna Samlijking, vid þad þridia Bodorded, þvi so sem Gud adgreinde Votnenn og Purrlended hvort fra ødru, so vill hann sijna Pionustugiord adgreinda hafa, fra annare Lijkamlegre Pioonustu, og þvi fyrerbaud hann streingelega Gydingum alla Lijkamlega Pioonustu, og Prælkunar Verk a sijnum Hvijldar-Dogum.

J odru lage merk, ad ſvo ſem þad fyrſta Sæd edur Sæde, til allra Graſa, Jurta, Bloomſtra og bloomgadra Eika, var allꝛeinaſta Ord DRottens, ſo ad epter þvi upprañ, ſpratt og bloomgadeſt þad allt ſamꝛañ. Eins lijka er nu þad Orded Guds, ſem þier a ollum Hvijldar og Helgedogum verdur kiendt, eda þu Les og jdkar, þad rietta lifande Sæde, af hvoriu allra goꝛodra Verka, Dygda og Mañkoſta, og heilagrar Poleñmæde, Bloomſtur Uppꝛſpretta; Jaa, fyrer þad verdur þu ſiaalfur gott Trie ſem fœrer goodañ Avoxt, og eitt Hveite Korn, hvoriu iñ verdur ſafnad, i Himneſka Dijrdar Korn-Hlodu DRotꝛtens, og af ſiaalfum Gude vel hreinſadur Vijn-Kviſtur, a JEſu Chriſto rietta Blꝛeſſada Vijntried Grodurſettur, og fœrer ſo mykeñ Avoxt. Liaadu þar fyrer, jaa, giefꝛdu þijnum DRottne Akurlende Hiarta þijns, a hvorium Tijma, ſem fyrer þier verdur kiendt edur Leſed Guds Ord med beſtu Adgiætne og Eptertekt, ſo hañ meige

þeſſu

þessu blessudu Sæde þar inn saa, þess munstu sialfur bæde Stundlega og Eilijflega hin bestu Not hafa.

## Nafned.

Wier kollum þennan Dag í voru Moodurmaale, Pridiudag, því hann er sa Pridie i Vikunne, adur var hann kalladur Tyrs Dagur, epter einu Skurdgode Heidingia, svo sem hiner adrer epterfylgiande Dagarner baaru þvilijk Skurdgoda Vidurnefne, hvor Christnum Monnum vor a medal umm siider leidduft. Giæfe Gud ad þeirra Heidinglega Lijsferne, hefde oss eirnenn leidst, og hvorn Dag aflagst, Þetta Nafned vilium vid Saal mijn ecke Onijta.

J fyrstu minner þad þig a, mijn Saal, Vidurkienningu þinar Christelegrar Trwar. Þesse Dagur er eirn i Vikunne, fyrer sig, og hefur sitt Nafn af Þrennu i Tolunne. Eirn er Gud i sinne eylijfre Veru, þo eru þriar adgreinqnlegar Persoonur i þeirre

i þeirre eyliifu Veruñe, eñ er þo allein asta eirn Gud.

Su fyrsta Persoonan er Gud Fader, hañ er ecke Skapadur, Gieteñ, Fæddun, nie af neinum Frañfarande, helldur, er hañ aan alls Upphafs og Enda, fraa allre Eyliifd, til allrar Eyliifdar.

Su oñur Persoonan, er Guds Sonur, hañ er af Fodurnum ecke Skapadur nie Frañgaungande, helldur fyrer alla Eyliifd Gieteñ og Fæddur, med einum Oyfergriipanlegum Dasemdar Hætte, Gud af Gude, Jaa, sañur Gud af soñum Gude.

Su þridia Persoonan er Gud H. Ande, ecke Skapadur, Gieteñ nie Fæddur, helldur jafnt bæde af Fodur og Syne Frañfarande, fraa Eyliifd til Eyliifdar, Og þo ad þriaar sieu Persoonur Gud doomsins, ad ollu jafnar, so þar finst ei hiaa þeim neitt Elldra nie Yngra, Hærra nie Lægra, Meira nie Miña, þa samt er þo ecke nema eirn einaste Gud og DRott-

DROTTen̄.

Priu eru Verk DRottens, fyrer hvor vier plogum Persoonur Guddoomsins, svo sem med einu Kien̄eteikne ad adgreina, þar vier sitt Verked hvorre Persoonun̄e tilleggium, þad fyrsta er Skopunen, þviad Gud Fader skapade Himen og Jord, fyrer sitt Ord. Pad an̄ad er Endurlausnar Verked, þvi ad Sonur Guds, JEsus giordest Madur, og Endurleyste oss fra eylijfum Dauda, med sijnu Heilaga Bloode. Pridia er Helgunen, þviad Heilagur Ande Helgar oss, fyrer Guds Ord og Sacramenten̄, þo eru þesse Verken̄ ollum Persoonunum Sameigenleg, med þvi þær allar hafa vered Samverkande i sierhvoriu þessu Verke.

Priu eru þau Verken̄ Guds, sem tilheyra sitt hvorre Persoonun̄e Guddoomsins sier i Lage, en̄ ecke ollum jafnt til samans, þau eru þesse: Faderen̄ fæder af sier Sonen̄, Sonuren̄ verdur af Fed-

urnum fæddur, i Heimeñ sendur, verdur Madur, lijdur Pijnu og Dauda. Heilagur And Framgeingur af Fodur og Syne, og byrtest i Dwfu Lijking yfer Christo, Matth. 3. Og i Elldlegum Tungum yfer Postulunum, Act. 2. Þessare Adgreining skalltu Einfalldlega behallda, og blijfa þar vid, epter þvi sem þad auglijsest i Guds Orde, framar lættu ecke Hollds nie Bloods Heimuglega Forvitne eptergrenslast Gudlegum Leyndardoome.

Þrijr eru DRottens Velgiorningar Mañenum Naudsynlegaster i Heime þessum.

1. Goodur Sææluforgare. 2. Gudhrædt og Riettvijst Yfervalld. 3. Good Ecta Persoona. Hafer þu þessar goodu Gææfur odlast, þa þacka þær Gude, og far vel med, svo Gud svipte þig ecke, vegna þijns Oþacklætis, so goodum Gææfum.

Þrijr ærgiæter Hluter veitast þier af GUDE, a medañ þu lifer.

1. Heilbrygden. 2. Good Samvitſka. 3. Goodur Fridur, þetta-þacka þu jafnañ þijnum Gude, Skada þu ecke Viliande þijna Heilſu, þvi hun er Vandfeingeñ aptur, Varadu vel Samvitſku þijna, þvi hun er Vidkvæmare eñ Siaalldur Augans. Naſka þu ecke goodum Fride fyrer lijteñ Mun, þvi hañ er Dijrmætare eñ oll Heimſins Audæfe.

Priaar Andlegar Dygder elſka þu. 1. Trwna, med heñe medtekur þu DNottens Velgiorninga, fyrer hana þocknaſt þu, og oll þijn Goodverk Gude. 2. Vonena med hvorre þu bijdur epter þvi ſem þu trwer, og veitſt ad ei mun bregdaſt, þad Gud hefur lofad, hun ablar þier Poleñmæde. 3. Kiærleikañ, med honum giorer þu gott Naunganum, i Hljidne vid Gud þiñ, hañ ablar þier Lofſtijrs a þijnum Uppriſu Deige.

Priaa Mañkoſte ſtunda þu jafnañ ad geima. 1. Trygd Hiartans. 2. Sañleika Muñſins. 3. Jdiu Handaña, þvi

Otrwtt Hiarta leider Snoru Oluckuñar
yfer sin HErra, Lijgeñ Muñur deyder
sijna eigen Saalu, Sap. 1. Og Maal-
ugur Muñur mun alldrei Giæfu stijra a
Jorduñe; Eñ Jdiulausar Latar Hendur,
leggia Hægende og Dijnu under And-
skotañ i Mañsins eigen Limum.

A Pridia Deige epter sijna Pijnu,
reis HErrañ Christur af Dauda. Pvi
sie og þesse þridie Dagur i Vikuñe (sem
og aller adrer) þiñ Upprisu Dagur af
Synda Daudanum, fyrer saña Jdran.

Soñ Jdran fullgioerest i þremur Port-
tum. 1. Er Medkieñing og Hiartans
Angur fyrer drygdar Synder. 2. Er
Trweñ a JEsum Christum, ad vier faa-
um Syndaña Fyrergiefning, fyrer hañs
Blood. 3. Er Aflaat og Fraahvarf Sy-
ndaña, og Endurnijung Lifnadarens til
goodra Verka.

Priaar Vistarverur, eru Mañenum
fyrersettar. 1. Heimureñ, i hvorium
hañ lifer, 2. Grofen þar Lijkameñ forrot-
nar,

nar. 3. Himnariike Guds Bornum fyrerbwed, edur Helviite þeim Ogudlegu tilreidt. J Heimenum hefur þu so sem eitt Nætur Herberge, þar vertu Var um̃ þig, þvi hañ hyser marga Otryggva skadlega Geste. Haf þañ i Heidre, sem þessa Herbergis riettur Herra er, sem er Gud. Allur Heimureñ maa reiknast ad sie Kyrkia DRottens (sagde eirn af þeim Gomlu) Haga þu þier þess vegna so allstadar i Heimenum, hvar sem þu ert staddur, svo sem þu villder og ætter ad skycka þier i Mustere DRottens.

J Grofeñe a þitt Holld ad hvijlast, þvi bwdu þig med sañre Gudhrædslu, so til þess Hvijldar-Stadarens, ad þier meige þar vært og roosamt verda, og þitt Holld meige hvijlast i Voneñe.

J Himnariike er þiñ riette Eilijfdar Heimilis Stadur, þangad laattu þig ætijd langa, og halltu þig a þeim Veigenum, sem þangad leider, þad er Herrañ JEsus med Trwñe medtekeñ, i Kiærleikanum og

Christelegu Framferde priisadur, og i Polenmæde elskadur, þa þarftu ecke Helvijte ad hrædast, þvi JEsus gefur þeim øllum eilijft Lijf sem a hañ trwa; Eñ Leideñ sem til Helvijtis liggur, er Vantrw, Jdrunarleise, og hverwdarsamlega i Syndunum ad Lifa, heñar giættu, svo ad þu hana varest, og bid jafnañ Gud ad hañs goodur Andeleide þig a riettum Veige, og Leidseige þier uppa þañ eilijfa Veigeñ.

Hier ad auke miñstu a þetta þrent. 1. Hvadañ þu ert komeñ, sem er, nakeñ frar Moodur Lijfe, Job 1. Vertu Lijtelaatur og þacka Gude þijnum Forsorgara. 2. Hvar þu ert, sem er, i hreckvijsum Heime, vertu þvi var uñ þig, og bid Gud uñ Verndan. 3. Hvort þu fer, sem er nakeñ i Grofena, og treyst JEsu þijnum Lijfgiafara, og bwstu jafnañ vid þiñe Burtfor.

* * * * * *
* * *

JEsus.

# JESUS.

Aglega eru mier fyrer Sioonum þijn Dasamleg Handaverk, miñ HErra JEsu, þvi þu ert sa sañe Gud, med Fodur og Heilögum Anda, sem Land og Sioo adskilder, og Jördeena svo Bloomlega tilbiooſt, þeſſ ſtoora Heims Votn adskilder þu og Þurrlended, verande eirn sañur Gud. Þurt og Vott adskilder þu, i þeim miña Heime, þad var ſa Vatnsſiwke Madur i Pharisæara Hofdingians Hwſe, Luc. 14. Þvi þu ert sañur Gud, og sañur Madur. Hier lieſtu bæde Gros og Tre Bloomgaſt epter þijnu Orde; Eñ ſijdañ hlaut þad Lauf-Bloomgada Fijkiu-Trie, allt ofan ad Rootum upp ad viſna, þa þu til þeſs talader, þvi þu hefur Valld til ad uppræta þad þu ſialfur hefur plantad. Hvort einaſta Straaed a Jordunñe, og hvort eitt Lauf-Blad a Vidnum ſyner og ſañar þitt Almætte, þijna Speke og þijna Goodgyr-

ne. Miñ goode HErra JEſu; Veittu ollu Syndaña Vatne og Floode ofþungra Freiſtinga, af mijnu Hiarta, og laattu mig ætijd faa ad ſiaa Purrlende þiñar ſætuſtu Hugguñar og Hiaalpræðis. Laattu hvorke þad diupa Syndaña Vatn nie Freiſtingaña Flood, dreckia Saalu miñe, þu ſem i þiñe Kvol varſt ſiaalfur ſvo ſem Vatn wthelltur, og wthellter fyrer mig bæde Bloode og Vatne, af þijnu Hiarta a Kroſſenum, hreinſa þu og vøkva Purrlende Hiarta mijns, ſo þad verde hreint, lifande og friooſſamt i ſañre Trw, Von, Kiærleika og Poleñmæde. Laattu mig ecke vera hriooſtuga, Avaxtarlauſa, obleſſada Pyrne Jord.

Miñ HErra JEſu, þa þu ſaaſt þeſſe Verkeñ þijn; Adgreining Vatna og þurrlendis, og fagurt bloomgada Jord, þaa ſaaſtu þad var gott.

Pad ſtendur hier twiſvar vid þetta Dags-Verk. Alijttu i Myſkun þiñe mijna andlega Piooonuſtugiord, Bæn, Lofgiord og Jdkun

og Jdkun þiña heilogu Orda, þo þetta allt sie veikt og vanmættugt þad litla Bar-Korned miña Ytre Verka, halltu af Naad þiñe fyrer Gott, og gior þu þad allt Gott, fyrer Auglite þijns Himneska Fødurs, med þijnum fullkomlega Bloomgudum og full Avaxtarsømum Giæskuverkum. Miñ HErra JEsu, Jordena og Siooeñ hefur þu blessad og skapad, mier sem ødrum til Gagns og Nota, þad þacka eg þier af øllu Hiarta, og bid ad þu hallder þiñe Blessan vid Magt a Jorduñe, svo mier notkest allt þad vel, sem þu mier af Jorduñe til Næringar gefed hefur, medan eg life af Jorduñe.

Leide mig þijn Almættuga Hiaalpar Hond, hvar eg fer yfer Votn eda Þurrlende, svo eg lijde hvørke Slis nie Skada a Lijfe edur Limum.

O Herra JEsu, Himen og Jord eru þijn Handaverk, þvi sie þier bæde a Himnum og Jordu, Lof og Þackargiørd, ad Eylijfu, Amen.

# Midvikudags Jokun.

HJorde Dagur Vikuñar, er Midvikudagureñ, a honum skapade GUD Soolena, Tungled, og þær fagurt lijsande Stiornur, og þetta allt sette hañ a Himensins Festing, so þesse Lioosseñ skyllde lijsa Iorduñe, Sooleñ a Dageñ, eñ Tungled og Stiornurnar a Noottuñe. Þetta var nu Verked DRottens a þeim Fiorda Deige Skøpunar Verksins.

NU sie aptur þitt Verk i Dag mijn Sæl, ad lofa og prijsa þeirra fogru Himens liioosa Skapara, og þiggia þeirra Lioos og Liooma, med Þackargiord. Þar næst, nær þu æliijtur þañ fagra og forprijdda Himen þa læt þier til Hugar koma ad hañ verdur i heilagre

lagre Ritningu kalladur Sæte DRottens. Siaadu hvad Forprijdelegt ad er þetta Sæte DRottens, sem þo maa reiknast edur kallast, so sem hans Almeñelegur hvorn Dags Stooll. Salomons Forgyllte Fijlabeins Stooll, er ongvañveigeñ i þinu minsta vid hañ jafnande. O hvad fagur og forprijdelegur mun sa eylijfe Haatignar Haatijdastoolleñ DRottens vera i hañs eylijfre Dijrd og Majestat? Þeñañ fagra Hvorndags Stooleñ DRottens siaaum vid Saal mijn i Eymd ockar og Vesolld, nu a Footskoreñe DRottens (þad er Jordune) i einu lijtelmootlegu daudlegu Hollde, eñ hiñ munum vid siaa i Vegsemd ockar, J skijnande og Forklaarudum Lijkama, sijdar meir i eylijfu Lijfe. Hier meigum vid Fyrerverda ockur, ad sicä daasamleg Handaverk DRottens, a hañs Hvorndags Stoole, vegna ockar Overdugleika, eñ þar munum vid ecke skamast ockar ad siaa hañs Dijrdar Haasæte, og hañ sialfañ

i siñe Guddomlegre Majestatis Tign, þar a sitianda, þvi vid erum þar Iklædd JEsu Christi Verdugleika. Hier meigum vid opt i Eymdum daudlegs Hollds, lijta grætande Bænar Augum uppa DRottens Hoorndags Sæte Par munum vid med glodum Packlætis Augum, i Sælu Odaudlegs Lijkama, lijta uppa Hætijdastooleñ DRottens þess allra hædsta.

Hvad Gledelegt og Lystelegt er Heilbrygdum Lijkama, i hijru Vedre, ad sia þad fagra Soolarskin, og þær lioomande Stiornur i fogru og hlyu Nætur Vedre, so Mañ skal øngvañveigeñ langa fra soddañ fagre Asynd?

O HErra Gud, Hvad mun þa morgum Pusundsiñum Lystelegra vera, i eylijflegre Heilbrygde Riettlætesins, bæde a Lijfe og Saalu, i eylijfum Hlyendum Gudsſ sætustu Elsku og Indislegum Selskap allra heilagra Eingla og Utvaldra, ad sia DRotteñ a sijnu Tignar Sæte,

og hañ med þeim ollum, ſvo ſem Sool og Stiornur, alſkijnande ad loſa og prijſa fyrer utañ Enda, ꜳn alls Aflꜳts, Leida og Laungſeme um̃ alla Endalauſa Ey lijfd? Eya værum vier þar.

Þetta ætte nu ad vera, mijn Sꜳl, þijner Þꜳnkar, under Lioosſum Himenſins, nær ſiñ þu ſær Toom til, þeir munu giora þier þitt Ervide liett, og auka þier forleingiug epter Himnarijke, og mykia fyrer þier Mootlætis Þꜳnkana, ſem þier kuña til ad falla hier a Jorduñe.

Mundu þig þar fyrer mijn Sꜳl, ad þu hager þier vel og Sidſamlega fyrer þeſſum DRottens hvorndags Stoole, hvorn þu Daglega ſier, og verdur af þeim nu allt ſiꜳanda, og ſijdañ allt Dæmanda Drottne ſiedur, ſo þu fyrer hans Hꜳtijda Stoole, og Hꜳtignarlegum Doomſtoole ſtandaſt meiger.

Þeſſu jafnframt, lꜳt þier til hugar koma, ad DRotteñ ſette Himen-Tunglen̄ til Merkis og Teikna; Ovirdtu þvi allrej

drei þau Teikneñ sem a þeim ſke, þvi þau boda optaſt eitthvad nytt, og benda þier jafnaſt þar med til Jdrunar. Merk hv-ad JEſus þar uñ talar i Evangelio, þañ añañ Suñudag i Adventu.

Mier koma nu i Hug ſierdeilis þriu St-ormerke, edur Tœkn ſem Ritningeñ gi-etur uñ, ad ſkied hafe a Sooluñe. Pad fyrſta ſkiede a Dogum Joſuæ, þa Soolen ſtood kyrr epter Oſk hañs, þad var hon-um og ollum Jſraels Lijd eitt Sigur-Te-ikn, eñ Guds og þeirra Ovinum Falls og Foreydſlu Merke. Añad ſkede a Dogum Ezechiæ Kongs, þa gieck Sool-eñ edur Soolargeiſleñ, uñ tiju Lijnur aptur a Bak, a Sool-Skijfuñe, þad var honum eitt Teikn til Heilbrygde, þar hañ var Daudſiukur, og hañs Lijfdagar ſkyll-du leingiaſt uñ Fimtan Aar, þar honum var þo œdur Dauda hootad, Eſa. 38. Pridia ſkiede i Pijnuñe Chriſti, ſkomu fyrer hañs Andlœt, þad var allra Skep-na Medaumkunar Merke, fyrer þeim

ſaklauſa

saklausa Jesu og heñar Blygdunar Merke, þa hun sa sin Skapara under Andlated folna ; Og þeirra Heiptarfullu Gydinga Foreydingar Merke.

Himentungleñ voru og sett til Tijma Adgreiningar, hvar af þu mætt merkia, ad Gud vill þu skuler giæta Tijmaña.

Fyrst eru þar Tveir Tijmar Athuga verder. Sa eine er Hiervistar Tijmeñ. Sa añar er eilijfur Tijme, sem þa byriast, er þeñañ endar; Lifdu so hier a þessum fallvallta endanlega Tijma, ad þu og lifa meiger, a þeim eylijfa Tijmanum.

Þar eru eñ tveir Tijmar ORottens, ofs fyrer setter, Tijme Vitiunareñar i Nadeñe, og Tijme Vitiunareñar i Reideñe, taktu so Nadar-Tijmanum, ad þu þurfer ecke ad kvijda Reide-tijmanum.

Þar eru og þridiu tveir Tijmar, eitn Lijfsins, añar Daudans. Lifdu so Christelega, ad þu deyer farsællega. Vilier þu deya Riettlætra MañaDauda, hvørs Balaam sier Oskade, þa lifdu Riettlæt-

ra Maña Lijfe, hvoriu þo Balaam gleymde.

Þar eru eñ fioordu tveir Tijmar, sa eine Gledeñar, añar Hrygdareñar. Stilltu Holldsins Metnad a Glede-Tijmanum, og elska Hoofsemena, þvi opt kiemur hiñ sterkaste Stoormur wr blijdustu Logne. A Hrygdar-Tijmanum, vert ecke ofslijtelhugadur, og fordast Vijl og Orvænting; þvi alldrei er sa strijde Vetur so læungur, ad ei fylge Sumared epter, og alldrei svo Myrk Noott, ad ei reñe Sooleñ upp ad Morgne.

Þa fimtu tvo Tijma læt þier ecke gleymast, semer Tijmeñ Æskuñar, og Tijmeñ Elleñar, Æskañ folnar skioott. Heimskastur allra Skepna er Ungur Madur sterelautur, Ormdþægeñ siervitur og Ogiæteñ. Hvad fogur Bloomstriñ standa a Sumrenu, þa folna þau þo og falla under Vetureñ. Tijmeñ Elleñar er þungur hriwfur og hrumur. Heimskur er sa gamall, sem alldrei lætur sier leidast ad elska

ſka Heimeñ. Illgiarn er ſa gamall ſem alldrei leideſt ad lifa illa. Aumur og oforſialll er ſa gamall, ſem Alldrei biiſt vid ad deya. Sæll er ſa ungur, ſem Eptterdæme Herrans JEſu, er hliideñ, og naær er ad prooaſt ſo ad Vitſku ſem Alldre, Luc. 2. Og ſa gamall, ſem med þeim gamla Simeone tekur JEſum uppa Armlegge Trwar ſiñar, Luc. 2 Ungum eykur Sæmd ad læra, þvi þad Eſkañ nidurſæer, ſkier Elleñ upp. Eñ Gomlum er Heidur ad lata epter ſig good Dæme, þviad ærlegt Rikte og gott Nafn epter ſig latted, er ſu fegurſta Liikhriiſuning. Hier ad auke minſtu jafnañ a umliden Tijma, og bid Gud ad fyrergiefa þad þier hefur aforded, og gior honum Packer fyrer veitta Velgiorninga. Minſtu a yferſtandande Tijma, og haga þier Forſiaalega ſo þu ecke ſafner þier Reide og Olucku til ſeirne Tijmaña. Minſtu a Okomeñ Tijma, hañ er Oviſſ, og ſærer opt Oviſſa Hlute med ſier, Bwſtu ſem beſt vid þvi ſem koma

kañ

kañ (þvi hvad ecke kiemur Ovart, skielfer ei so snart, og skadar ei so hart) og locka ad þier Leidslu Anda DRottens, med Bæneñe. Leitadu þess jafnan sem Iñelegast a þessum skamviña Tijma, sem þu hellst villd er fyrer þig kioosa, ad hafa og hallda um þañ Eylijfa Tijma.

Nu virdest mier eñ, svo sem þetta Dags-Verked DRottens, vijse oss uppa Meining þess Fioorda Bodordsins. 1. Þviad lijka sem Sooleñ, vermer og frioofsamt giorer þad nijsaada Fræ-Korn, so þad vex og þrooast til Avaxtar, so næra, fostra og forsorga gooder Forelldrar, sijn Born og Afkvæme, þar fyrer ber þeim aptur bæde Hlijdne og Heidur. 2. Sooleñ med sijnum Liooma, upplijser Tungl og Stiornur. Eirn Gudhræddur og trwr Sælusorgare, lyser med lioomande Kieñingu hreinnra Guds Orda, sijnum Tilheyrendum, hvar fyrer honum ber Elska og Virding. 3. Tungled af Sool-arbyrtuñe upplyst, hindrar og burtdrijfer

ur þau ſvortu Nætur myrkur. Veralld-legt Yfervalld, upplijſt af JEſu Chriſti Anda, fyrer hans Ord, varnar Verkum Myrkrana med alvarlegu Straffe, epter fremſta Megne, þar fyrer ber þvi Heidur og Lotning. 4. Stiornurnar hiaͮlpa og til ad lijſa a Nottune, hvor epter ſijnu ſkomtudu Skyne og Liooma. So a Hi-oonabands Stietten, og hvor epter ſine Kallan og Formegnan, med goodum Dæ-mum, chriſtelegum Aga, og heilnæmum Aminingum ad lijſa og liooma i ſine Sti-ett, þvi ber þeim Hlijdne og Holluſta. Nockrer af þeim lærdu Monum hallda ad ſumar Planetur, þa þær koma a moots vid Soolena, a ſijnum Hrijng, þa vijke þær aptur ſo ſem til Baka lijka ſem villdu þær Virding veita Soolune, ſo ſem ſijn-um Hoſdingia. Svo ſkulu aller Under-gefner veita Virding, Heidur og Hlijdne ſijnum Yferbodurum, hvorium ſem hæf-er og ſkylldugt er, epter DRottens Be-falningu og Skipan.

Nafned.

# Nafned.

AF þvi ad þesse Dagur stendur midt i Vikuñe, þa nefnest hañ i voru Maale Midviku-Dagur. Mijn Saal, vid vilium þvi ecke olldungis gleyma, þvi þad giefur þier Ordsok og Efne til ad miñast fyrst a þad, hvorsu Midpersoonañ i Guddoomenum, Sonur Guds, giørd est Madur, og er vordeñ eirn Medalgaungare, midt a mille þess Riettlæta reida Guds, og þess Raunglæta seka Mañs, hvor fyrer sitt heilaga Blood og Foornfæringu sijns Saklausa Blessada Lijkama, hefur eylijfre, hreinnre og Obrygdanlegre Sætt a komed, midle Guds og þijn, sem eirn med ødrum, varst i hædstu Osætt og mestu Onaad vegna Syndaña, vid Gud komeñ, svo þu med øllum þeim sem a hañ trwa, fær, og alla reidu fenged hefur, allra þiña Synda Fyrergiefning i hañs Nafne. Hier af ættu þig ad Gledia, eñ hañ ad Heidra.

2. Þar næst miñstu, ad Drottiñ JEsus

Fædd-

Fæddest, Pijndest, Doo, Reis upp af Dauda, og stie upp til Himna i midre Verolldeñe, til Merkis, ad aller skule jafnañ Kost a eiga, allra hañs Velgiørninga ad niota, sem þad vilia af Hiarta gyrnast.

3. J Mided hia tveimur Spillvirkium, doo hañ, so hañ oss Spillvirkiana (syndugu Meñ) sette i Mided hia þeim Riettlatu a Himnum, ef vier med þeim ydrande Spillvirkia, snwum oss til hañs i sañre Trw.

4. J Mided stood hañ, epter sijna Upprisu, hia Postulunum, oskande þeim Fridar, þvi hañ vill midt i Mided vera, hvar sem hañs Fridar Evangelium verdur kient og medteked, og hia ollum þeim sem Frideñ elska.

5. J Mided stood hañ, medañ hañ synde Thomasi Postula, sijn Sara Or, Joh. 20. Þviad hañ vill midt i Mided vera, i midium Mañraunum, Sorgum og Freystingum, allra þeirra sem med siñe aud miukre Trwar-hende, þreifa a hañs heilogu

logu Pijslar Saarum.
6. J Mided þeirra sie Liooſaſtiakaña, ſijnde hañ ſig S. Johañi i hañs Openberingum, þvi hañ mun midt i mided ſtanda, vera og bwa, hiaa øllum Utvøldum i Himnarijke, og vera þar ſo jafnt allra Glede, og Hiartans Unadſemd.
7. Midplaatzed Jardareñar midle þeſs øfheita og ofkallda, gaf Gud Meñunum til Jbwdar. Midplatzed vors Lijkama vill hañ aptur hafa, ſier til Jbwdar, (þad er Hiartad) Mijn Saal, bwdu þad ſem beſt til, handa þijnum Herra med Daglegre Jdran, Trw og goodum Aſetninge i heilagre Poleñmæde; Vijſadu JEſu alldrei þadañ wt, med Jdranarleyſenu, Prioſku og Pverwd, ſo hañ wtreke þig ecke af þijnu Fødurlande, ſo ſem þa ohlijdugu Gydinga, og hañ ecke (hvar meſt uñ vardar) wthyſe þier wr Herberge Himneſkrar Dijrdar.
8. Medalhooſed elſka þu i øllu þvi þu gjorer þad er allra Mañkoſta rietta Platz.
Vant

Vañt og Of, fær alldrei gött Lof. Midt i Eymdunum treystu Gude, Midt i Velgeingneñe, vantreystu sialfum þier, og Ottast Gud, so muntu þad besta, Medalhoofed rata meiga.

# JESVS.

VNN siñ eg hier miñ HErra JEsu þig, midt i þijnum Handaverkum i Skopuneñe, Sooleñ sialf vidurkiende þig siñ HErra og Skapara, i þiñe Pijnu, þa hun miste sijna Byrtu, þvi hun blygdadest og Fyrervard sig ad vera Skiær, þa þu heñar Skapare følnader. Stiarnan vidurkiende þad sama, þa hun vijsade Vitringunum til þijn, Matth. 2. Þvi vil eg og skal jafnañ, þa eg sie þau skiæru Himentungl lioома, vidurkieña ad Verked prijse siñ Mystara, Lof og Dijrd sie þier, fyrer so þarflegt Meistaraverk, og fagurt Smijde. Miñ HErra JEsu, þu ert sialfur su Eylijfa og allra fegursta Sool Riettlætesins, þu ert su Huggunarsamlegast-

legasta Sool mijns Hiarta, stattu vid hia mier, i Asooknum miña Ovina, Andlegra og Lijkamlegra, nær eg med miñe Hiartans Andvarpan til þijn tala, Svo sem þu lietst Soolena standa fyrer Josua, og þu giorder þeim blinda Mañe hia Jericho, ver tu mier, so sem þu og ert, hid vissasta Sigurmerke i ollum mijnum Freystingum, Þu gieckst so sem tiju Lijnur til Baka, þa þu Audmykter þig allt til Krossens Dauda, Laattu þad hugga mig a miñe Soottar Sæng, sie mier þa hid vissasta Teikn og Merke þar til, ad eg skule Eyliflega Lifa þo Logmaaled og mijn Samviska hooti mier Dauda. Soolen Formyrkvadest yfer þier, moote þijnu Andlaate. O Drotteñ miñ JEsu, lystu mier þa sem skiærast hid Jñra i mijnu Hiarta, þa Soolen Formyrkvast, og Siooneñ daprast mier hid Ytra. Straffa mig ecke med Blindleika Hiartans, nie Formyrkvan þiña H. Orda, þess bid eg þig af allre Root. Miñ HErra JEsu, þu ert su rietta fagurt-

skijn-

ſkijnande Jacobs Stiarna, lioomande ſem ſkiært Lioos til Uppbyrtingar Heidnum Pioodum, og til Vegſemdar Iſrael, Jacobs Affſpreinge.

Pu ert mijn viſſaſta Leidarſtiarna iñ i Himnarijke, bæde Nadareñar og Dijrdareñar. Pu ert mijn rietta Planetu Stiarna, ſem ſtendur hid næſta Guds Födurs Hiarta, O! HErra, þad er ſu allra beſta og kroptugaſta Planeta, i þvi hinu Heilſuſamlegaſta Teikne, under þeſſare Stiorn uñe er eg fæddur, mijn heilaga Skijrn ber þar liooſt Vitne uñ. Epter þeſſarar Stiornuñar kroptuguſtu Verkan, reikna eg alla mijna Heill og Lucku, bæde þeſſa og añars Heims; Under heñe vil eg feigeñ ſtioornaſt medañ eg life, gefande mig fartt uñ Gang og Verkan Natturlegra Himentungla, medañ þeſſe Stiarnañ Herrañ JEſus, bodar mier Lucku og Bleſſan, þa kvijde eg lijted fyrer, hvad adrar Stiornur boda. Under Stioornan og i Lioma þeſſarar Stiornuñar vil eg feigeñ og glad-

ur deya, þvi þess er eg fullviss ad hun leider mig hættulaust iñ i þa himnesku Bethlehem, og Braud-Hws eilijfrar Dijrdar, Amen.



# Fimtudags Idkun.

A Fimte Dagur Vikuñar, er Fimtudagureñ, A honum skapade Gud allra handa Fiskakyn, i Stoonum og Votnunum, og Fuglana sem fliwga skyll du under Himnenum, Þetta var nu þad Fimta Dags Verked DRottens.

Hier a moot, skalt þu til Sæla mijn, ad þu ecke skert Idlulaus fyrer Skapara þijnum. Þar fyrer miñstu fyrst, ad huxa uñ Almætte DRottens, hvor ed þeim lifande Skiepnum hefur i þvi kallda Vatne, giefed Lijf og alla Nátturlega Hræring, þvi er DRotteñ so i Vatnenu, sem a Þurrlendenu

Dar-

Darsamlegur. Er þad ecke stoor Forundran, hvorsu þad þuña Vatn, gietur fleytt og loptad þeim stooru og hrædelegu Hval-Fiskum, so þeir leika sier þar iñe, lijka sem þeir ættu i hægre Sæng ad snwast? Æ! Jeg Mañeskian, er so til Eymda og Armædu fæddur og boreñ i þessum Eymdardal, sem Fiskureñ er skapadur til Sundsins, Eñ sa DRotteñ, sem midt i Votnunum fleyter so stoorum sem smærum Skiepnum, hañ mun mier i þessu Eymda og Armædu Vatne vel fleyta, og mig þar iñe, ecke Fyrerfarast nie Forgaanga laata, Amen.

J Ødrulage athuga þu hier Saal mijn, Fuglana Himensins, þeim sette DRotteñ, ad fliwga uñ Lopted yfer Jørduñe, þad er eitt Almættis Verk DRottens. Þad þiker þeim Rijku Tignarmoñum Prijdelegt, ad yferbreyda Stoola sijna med fogrum Tiolldum, Saumudum eda Myndudum med Fugla og Dyra Myndum og Maalverke, hvad þo ecke er nema daudur

Skugge. Eñ ſa Almaattuge DRotteñ prijder hier Tialld ſijns Hvorn-Dags Stools (þad er Lopted) med Otelianlega ſlags mørgum Fuglum, ſem marger eru afbragds Lyſteleger ad føgrum Lit, og ſijngia miøg Sætlega, hvør kañ þvilijkt ad giøra? Þvi heiter hañ og er med riettu ſa DRotteñ hvørs Lijke ad eingeñ er. Fagurlega er þetta Hvorn-Dags Stool-Tiallded DRottens tiibwed, eñ ſegra mun þo vera hañs Tialld kriingum hañs Hattijda Velldis Tignar-Stool a Himnum, þar ecke liſande fagrer Fuglar, helldur þeir Himneſku Cherubim og Seraphim fliwgande; moot hvør ødrum hroopande ſijngia, eylijft Sanctus med eirnre ſætre ſkiært hlioomande Himneſkre Roddu, og prijdeleguſtu Eingla Saunglyſt. Miked er halldid af Fortialldenu med Cherubims Myndum, i Salomonis Muſtere, Eñ hvad er Handaverk Mañaña hia Handaverkum DRottens, eda þad Dauda, hia þvi Lifanda, eda þad Forgeingelega Jardneſka, hia

þia þvi eylijſa Himneſka, ad reikna ?

Siaa þu hier eñ framar, mijn Saal, Fuglarner eru ſkapader Liettfærer, þeir fliwga i þvi lijſanda Lopte, Fiſkarner þar a mootePwngfærer, þeir ſveima i þvi diũa Vatne, þo nægeſt hvør med ſijna Tegund, þar er eckert Oſumdar nie Metnadar-Strijd a mille þeſſara Skiepna, Meñerner meiga ſkamaſt ſijn, ſem þvilijkum Skiepnum giøra ſig ſialfer ſijdur, med Oſund og Metnade. Lærdu þar fyrer mijn Saal ad nægiaſt med þitt af Gude giefed, og afſkamtad Hlutſkipte. Ef Gud añ þier ad ſijngia þiñ Glede-Saung i Lopte Verallda legrar Uppheſdar, og Byrtu goodrar Lucku og Velgeingne, þa Ovirdtu þañ allsrei ſem i Taara-Vatnenu flytur, og diũu Eymda Floode ſveimar. Eñ ſie ſo Gude þockneſt ad laata þig ſo bada og ſveima i þiña Taara, Mootlætis og Hørmunga Floode, þa treyſtu þijnum Gude, hañ lætur Fiſkana fiña ſijna Næring og Biørg, Hæle og Skiool i Vatnenu, þvi mun hañ

þig og ecke helldur yfergiefa, Drottenn legg-
ur Pwnga a oss, enn hann hialpar oss og eirn-
enn, og leider oss aptur nedan wr Diwpe
Jardarennar. Varastu þvi ad mogla,
eda þrætta moote þijnum Skapara, edur
ofunda þa sem fegre Luccu synast hafa.
Ofundenn hefur sitt Upphaf og Nidurlag
hia Dioflenum, og er lijk einum Hunde,
sem sialfur etur wr sier sitt eiged Hiarta.

Fuglenn veit ad skamta sier mætulega
hætt Flug, skamta þu og Hugrenningum
þijnum, Hoof og Stilling, og lattu þær
ecke fliwga hærra i Ransake og Epterhniis-
ne DRottens Leyndardooma, enn Hoof
og Maate Guds heilogu Orda lijdur
og lofar. Ætla þu ecke helldur sialfum
þier, neitt framm yfer þijna Krapta, og stun-
da þu ecke epter þvi sem þier Ofhætt er, og
yfer þitt Megn geingur.

Fuglenn hefur Snoruna, Enn Fiskurenn
Aunguleñ ad varast. Eingenn er Skiepn-
an Ohult umm sig fyrer Daudanum, og ecke
Mannesskian, þvi hun innleidde Daudann med
Synd-

Synderñe i Heimeñ, so er og Snara Lastañg og Krookur Freystingaña, eins þa æd≈re sem þa lægre, reidubweñ ad faanga og veida, so ongvum er Ohætt i Heime þessum.

Fugleñ er hin varasta Skiepna um̃ sig, Fiskureñ þar a moote, opt Ogiæteñ, og lætur veida sig þraatt a sama Krook, sem hañ fyrre færde. Vertu Var um̃ þig Christeñ Madur, hafdu i þessu Efne Fugla, eñ ecke Fiska Natturu, hafe Krookur Syndaña fært þig eitt siñ, þa laattu hañ ecke deyda þig ødru siñe, Ligg þu alldrei leinge i sømu Synd, Eitt siñ ad Syndga, er noog, ødru siñe Ofmyked, þridia siñe leider Straffed epter sig.

Fugleñ verdur veiddur, þo hañ sie Var um̃ sig. Opt verdur Fiskureñ frij, þo hañ sie Faavijs. Stioornan Guds er Undarleg fyrer vorum Sioonum, under hañs Naad og Verndan er allt komed. Treyste ecke sa Hyggne a Klookskap siñ, Foresleft ecke helldur sa Faafroode i sijnum Vankuñendum, Gud kañ ad giora Klookendeñ

ad Heimsku, og Einfalldt Fafræde ad Hyggendum. Sa hefur allt sem Guds kreyster, þess skylldu aller giæta.

Pad Fimta Bodord DRottens sijnest mier hier meiga adhneygiast, hvïad svo sem Gud hefur sett þeim syndande Fiskum Vatned, svo sem eirn Hlijfdarmwr, og þeim flivgande Fuglum, Lopted, svo sem eirn Kastala og Slot, til Frelsis sijnu Lijfe, svo þeim Skiepnum er ecke audsokt ad nar, nema hvad DRotten sialfur þær Mañenum so sem i Hendur skamtar, So hefur og DRotteñ vor, sett þad Fimta Bodord Mañsins Lijfe, svo sem eina Vernd og Hlijfdarmwr þvi til Frelsis og Forsvars, nema hvad Gud sialfur, þa sem illa giøra, so sem skamtar under Sverd Yfervalldsins, hvar fyrer þeir eru frij fyrer þessu Bodords Brote, sem DRottens Vandlætingar Sverd bera Riettelega, til Straffs þeim Ohlijdugu og Yverbrotnu, eñ Goodum til Forsvars.

Nafned.

# Nafned.

Ppter þvi sem þesse Dagur stendur i Vikudaga Toluñe, þa kollum vier hañ Fimtudag, hvad og giefa maa gooda Eptertekt.

Fyrst viijsar þad þier, mijn Saal, uppa þa Fiñ Parta Catechiſmi, edur þiña Chrjstelegra Fræda. Saa fyrste, eru þau heilogu tiju Bodord, þad er Drottens Reikníngs Book, þar iñe standa uppteiknud vor Tiju þusund Pund, sem vier Meñerner, hvør eirn fyrer sig, eigum Gude i Skulld ad giallda, hvør ad vier getum þo ecke ad eylijfu wt-kvittad af vorum eigeñ Kroptum til, J þessare Reiknings Book Drottens, lestu sem tijdast, svo þu lærer ad þeckia þar af þijna Skulld, og þier kome ecke Ovart Skulldaheimturnar, þa þier er sem bærgast ad gegna, og sem hættelegast ad verda krafeñ og klagadur. Lærdu þess vegna af þeim tiju Bodordum, ad þeckia Synder þijnar, og vert bliwgur fyrer þijn-

um Gude, og halllt þig epter þeim, þad fre-
kast þu megnar, i Otta Guds og Kiærlei-
ka til Naungans, hvíad þad eru alleinasta
þau goodu Verken sem þar iñe eru boden,
og þad eru þau riettu illu Verken, sem þar
iñe verda boñud.

Auñur Hofudgreinen er Trwarjatn-
ingen, þad er Kvittantiu Booken vor,
gefen oss af Gude, þar hefur þu uppteikn-
ada fulla Borgun, sem þu aatt og maatt
greida þijnum Gude, fyrer þaa tiju Puss-
und Punda Skulld, sem þu ert i fallen, a
moote DRottens tiju Bodordum, hvíad
i añare Greineñe Trwarjatningareñar,
fiñur þu tiju Herrans Jesu Velgiørninga,
hvorier riettelega af þier i Trwñe medtek-
ner, eru þijn fullkomleg og ænægianleg
Borgun og Bitalingur, fyrer allar þijnar
Synder, og Bodorda Brot, þar med læ-
tur Gud sier lynda, þvi laattu þier og þar
aned nægia, og hyrdtu ecke þijnum eigen
Verkum sem øll eru i sialfu sier Ogilld,
þar vid ad blanda nie bæta, svo þu spiller
ecke

ecke um̃ fyrer sialfum þier, nie Ovirding giorer Herrans Christi Forþienan, svo sem hun þyrfte þiñar Stodar og Styrks vid, hvad ad er, ein fyrer sig, su hin stærsta Synd.

Sa fyrste Velgiorningur er. Geteñ af Heilogum Anda. 2. Fæddur af Mariu Meyu. 3. Pijndur. 4. Krossfestur. 5. Deyddur. 6. Grafeñ. 7. Nidurstijgeñ til Helvijtis. 8. Uppriseñ. 9. Uppstijgeñ til Himna. 10. Sitiandeti Guds Fodurs hægre Handar.

Þessa þijna Kvittantiu Book ydka þu ætijd, og set þessa JEsu Christi Velgiorninga, a moote allre Logmaalsins Aklogun, og Skullda Krofu, og skielfingu þiñar Samvitsku. So verdur þu frij og kvittur, þvi sæler eru þeir, hvorium DRottenn tilreiknar ecke Syndernar, Psalm. 32. Lattu þessa Hofudgrein hallda þier vid einfallda Jaatning, og Vidurkeñingu þriggia Persoonaña, i einum Guddoome, og lær þu ad þeckia þryggia og þacka Vel-

giörninga Fodursins i Skopuneñe, Sonarens i Endurlausneñe, og Heilags Anda i Helguneñe.

Pridia Hofudgreineñ er, Fader vor, hun maa kallast vor Reiknings Book, þar iñ hefur Herrañ vor JEsus sialfur, svo sem i eitt Registur uppteiknad allar vorar Naudsyniar, og allt hvad oss vantar og vanhagar, bæde fyrer Lijf og Saal, og vijsad oss med Þær upp til Himnaña, til þess allra rijkasta DRottens, og allra Mÿskunsamasta Guds, og vors allra orlaatasta og Giafmilldasta Fodurs, sa ed noog hefur til ad veita, alldrei þreytest, nie þykernÿked fyrer ad giefa, og hefur sett sitt eiged AMEN, so sem sitt Nafn og Underskrift, under þessa vora Bæn, og Supplicatiu til Guds, hañs og vors elskulegasta Fodurs, svo vier skylldum ecke þurfa ad efast um þad, ad oss skule allt þad veitast, sem vier þar iñ umbidium, þviad AMEN þijdest, Sañarlega, Og JEsus er sialfur Sañleikureñ; Þessa þijna Parfar og Naudsynia

udsynia Bæn, lestu sem tijdast, med Idrande audmiuku og Trwudu Hiarta, fyrer Eyrum DRottens.

Fioorda Hofudgreineñ er Sacramentum heilagrar Skijrnar, þad er eitt Iñsigle, uppa Naadar Kvittantiu Bookena, þa sem DRotteñ giefur oß i Trwarjaatninguñe, og uppa þad AMEN, sem stendur vid Fader Vor, ad vier skulum sañarlega verda Bænheyrder, og þar med er Skijrnen vor, oß Scattmaale eirnrar goodrar Samvitsku vid Gud, i Trwñe a JEsum Christum, og ein Laug, sem oß hreinsar af Syndunum, og fæder edur getur oß (adur i Syndunum fædda og getna) aptur ad niju fyrer daasamlega Verkan H. Gudsʼ Anda i Kraptenum Bloodsins JEsu, og hañs Obrygdanlegra Fyrerheita, til Eilijfs Lijfs Riettlætis og Helgunar. Mijn Saal, gleymdu alldrei þessu DRottenlegu Iñsigle, og þijnu Scattmaals Bande vid þiñ Gud, og kappkosta ad hallda Trwñe og goodre Samvitsku,

allt til Æfeloka.

Fimta Høfudgreineñ, er þad hæverduga Sacramentum Lijkamans og Blodsins JEsu Christi, þad er aňad Jňsigled Drottens, uppa øll Nꝏdar Fyrerheit Guds, sem standa i hañs heilaga Orde, uñ Fyrergiefning allra þiña Synda, fyrer Pijnu og Dauda JEsu Christi, og Endurnyun þeß Sættmꝏla Nꝏdareñar, sem giordest mille Guds og þijn i Skijrneñe. Pad er og Miñis Pantur JEsu Christi, hia þier epterlꝏteñ, svo þu gleymer alldrei ad vera honum þacklꝏtur, fyrer sijna heilogu Pijnu og Dauda, og med þvi þier giefst þar i Braude og Vijne, hañs sañarlegur Lijkame og Blood, þa styrker þu þar med þijna veika Trw uñ Syndaña Fyrergiefning hveria hañ þier wtvegade, med siñe blessadre Pijnu og Dauda.

J þessarar Fæduñar Styrkleika gengur þu, ongvu sijdur eñ Elias Spꝏmadur i gegnum Eydemørk allra Eymda og Freystinga, yfer Jordanar Flood Daudans,

allt

allt til Guds Fialls, þad er Himnarijkis Glede og Vegsemdar; Hreftu þig sem tijdast a þessare Himneskre Fædu, og gled þu þig yfer so sterku Jñsigle þiñar Saaluhialpar, og undu þier vid þeñañ Miñis-Pantiñ JEsu Christi þijns Lausnara.

J ødru lage miñstu, ad fim voru þau stærstu Pijslar Saareñ JEsu Christi, Tvø a hañs Høndum, tvo a hañs Footum, og eitt a hañs Sijdu, geymdu þeirra sætu Miñing i þijnu Hiarta, med þeim sigrar þu Dioful eñ, ongvu sijdur eñ David vañ Goliath, med einum af þeim fim Steinum, sem hañ took wr Lækiarfarvegnum, 2. Sam. 17.

J þridia Marta giæt ad, ad fim eru þijn Skilningarvit; Siooneñ, Heyrneñ, Smeckureñ, Lyckteñ, og Tilfiñingeñ; Spaña þu þesse fim bøgu Akneyteñ þijn, under Ok DRottens Bodorda og lat þu þau ganga under þvi sæta JEsu Christi Oke, og a riettum Akurveige þijns Christendooms, svo þau drage þig ecke under Oke

Dioss-

Diofulsins, og Hollðsins sætra Gyrnda, a Afvega Glotunar og Fordæmingar Stijgeñ.

J Fiórda Maata miñstu, ad fim voru Hormungastader HErrans JEsu i hañs Pijnu.

1. Grasgardureñ, hvar hañ sveittest Bloodenu fyrer þig, og þreytte þiña vegna vid Daudañ. 2. Caiphas Holl, þar hañ var med Lygum Aklagadur, og fyrst Dauda-Madur wrskurdadur. 3. Dom-Hwsed Pilati, hvar hañ var Hwdstryktur, Pyrnekryndur og til Dauda dæmdur. 4 Golgátha, hvar hañ var Krosssestur, Hæddur, gegnum stungeñ, og deyddur. 5. Josephs Aldengardur, þar hañ var greftradur, og af Strijds-Moñunum vaktadur, iñ til þridia Dags, þa reis hañ upp med dyrdlegum Sigre.

Fiñ meiga hier a moots vid reiknast, þau Almeñeleguſtu Platz Mañsins. 1. Ervidis Platz Mañsins, þar hañ viñur og vacktar sitt Embætte. 2 Er Keñingar Platz-

ed, þar Mañ heyrer, Les og idkar Guds Ord, og bidur Gud. 3. Er Doomara Platzed, þar Riettvijslega a ad dæmast, og Sañleikureñ Raaunganum til Stodar, auglijsast og styrkiast. 4. Er Sorgar, Sottar og Hrygdar Platzed, þar Madur þarf ad huggast, einkum þa Daudeñ naalgast. 5. Er Greftrunar Platzed, þar Lijkameñ verdur nidursærdur i Vansemd, hvar hañ skal og sijdar upprijsa i Vegsemd, 1. Cor. 15. Hafe hañ i Trwñe vidskiled. J øllum þessum Stodum haf þier i Miñe JEsu Christi Pijnu, þvi fyrer hana bleßast þier Verked, fyrer hana bodast þier Naadeñ Guds og Fyrergiefning Syndaña. Forgrijp þig ecke med Pilato, i raungum Urskurde, þvi Pijnañ JEsu hialpar þier fra eilijfum Afellis Doome, Orvæntu þier ecke i Sorg, Soott nie Hormung. Laat JEsu Pijnu vera þijna Huggun og hugga þar eirneñ adra med, hellst a moote Daudans Otta, Ver þu med þier JEsu Pijnu, Dauda

Dauda og Uppriſu Miñing til Grafar þeirra Framliðnu; Jaa, Ver þu JEſu Piiſlar-Miñing med þier, alla þijna Liifdaga, iñ til þijns Dauda og Grafareñar, og ſegdu ætiid med Bonaventura vertu DRotteñ JEſu mier ætiid fyrer Sioonum med þijnum heilogum Blood-Undum, ſvo hvort ſem eg ſnij mier, og hvad hellſt eg med mijnum Augum lijt, mætte mier ſijnaſt rioodad i þijnu Blode.

# JESVS.

ENN ſie eg hier þitt Dasamlega Almætte og Maattuga Dasemd, miñ HErra JEſu, þvi þu ert þad eylijfa Fodurſins Ord, fyrer hvort ſvo Fiſkar ſem Fuglar, og allt añad, eru ſkapader þvi lietu og Fiſkarner epter þijnu Orde, draga ſig i Nete þiña Læreſveina, og Fiſkureñ færde eirneñ Petre Skatt-Peningeñ i ſijnum Muñe þar med ſijnaude, hvijlijka Magt Skapareñ hefde yfer ſiñe Skiepnu. HErra JEſu, þa þeir fliwgande Fuglar ſijngia,

fijngia, og þeir syndande Fiskar leika sier i Votnunum, hvorsu agiætlega prijsar þa Verked siñ Meystara? Lofad og prijsad sie þitt Almætte ad Eylijfu. Miñ Herra JEsu, Giordu Hiarta mitt fliwgande fra Jardneskum Hiegooma upp til þijn i Himen eñ, Gief mier i miñ Muñ og Hiarta, fagra Loffsaungva, til Dijrdar þijnu heilaga Nafne, hier Stundlega, og añars Heims eylijflega. Laattu mig ecke verda Andstiggelegañ Hræfugl fyrer þijnu Auglite, og ei helldur hafa Raans Fugla Art, nie Hrafna Naatturu vid miñ Naaunga. Laattu ecke af mijnum Huga nie Muñe koma Hrafna Hliood, a moote goodum Jdrunar Amiñingum, þvi þeirra Hliood er Cras, þad er, a Morgun, so eg ecke skioote miñe Jdran og Leidriettingu a Frest. Vardveittu mig miñ Endurlausnare, fra Snoru Oluckuñar og Krookum Freystingañar, og Nete Diofulsins, einkum a miñe Daudastundu. Laattu Saalu mijna hafa sitt Athvarf og Skiool, under þijnum Mysk-

unär wtbreiddum Bloomstur-Kvistum so hvorke Hretvidre Hormungaña, nie Naans Klær Diosulsins giore heñe Skada. Miñ O Rotteñ JEsu, þu lierst Fiskana blessast og frioosgast i Votnunum, Laattu mig og so blessast og frioosgast, i Huggun og Krapte miñar heilogu Skijrnar, Laattu mig Hugsvalast a Bloode og Vatne wtruñu, af þijnu signudu Hiarta. Laattu nu standa O Rotteñ miñ, vid þañ Saattmaala, sem þu giorder vid mig i miñe H. Skijrn (sagde Keisare Fridricus Barbarossa, þa hañ endade sitt Lijf af Osurkiælu Vatnsins i hvoriu hañ badade.) Miñ HErra JEsu, Fleyte mier Almaattugur Mystkunsamur Kraptur þiñ i giegnum allt mitt Synda og Mootlætinga Vatn til Himnaríkis Sælu Hafnar. Drag þu mig i Nete þiña Blessadra Fyrerheita, ad Lande þiñar Naadar; Drag þu mig upp wr Daudañs Pytt og Diwpe, ad Lande þiñar Dijrdar. Laattu mig ecke med Ogtis Fiskum, þad er Idrunarlausum

Skijr-

Syndurum wtkastast, Laattu mig helldur med þeim Goodu Fiskum, þad er þeim Utvoldu Guds Børnum, Innsafnast i Kirckenn, Jaa, i Kior og Koste Eylijfrar Saaluhiaalpar, AMEN.

# Føstudags Idkun.

SA Siótte Dagur Vikunnar, er Føstudagurenn, A' honum skapade Drottenn allra Han da Kvikfienad, Dijr og Skridkvikende Jardarennar, og sijdast allra Mannenn af Jardar Leyr, og blies einum lifande Anda i hanns Asioonu, so hann vard ein lifande Saal, og umm Skopun Mannsins Raadslagade Gud vid sialfann sig, og Myndade so Mannenn epter sinne Mynd. Par epter skapade hann Konuna af hanns Rife medann Mad-

ureñ svaf, og gaf hana Mañenum til Medhiaalpar, og sette þau so Herra yfer øll sijn Handaverk, und er Himnenum, og lagde eina kropt uga Blessan yfer þau bæde.

MEIN Saal, svo sem þetta Verk ed er þad seinasta i Skopunar-Verkenu DRottens, Svo er þad og hid Eptertakanlegasta og Athuga-verdasta. Añrijke Holldsins i Lijkamlegu Starfe, hindrar ockur myked i þessare þvi-lijkra DRottens Verka Jhugan, þo vil-ium vid giefa ockur eina litla Toomstund epter ad taka, þvi sem mest um̃ vardar. Andeñ skyllde ecke helldur Jdiulaus vera, eñ Hollded. J þessu Dagsverkenu Drott ens er Tvent þad sem vid høfum ad yferve-ga. Pad Eina er Skopun Dijraña, Skridkvikendaña og Fienadarens. Pad Añad er Skopun Mañsins.

Hvad Skopun allra þeirra Maallausu Skiepna vidvijkur, þa eru þær fæstar, sem

oſſeru kuñugar, þo vær uñ nockrar heyrt
hofum, eñ ſamt og aadur, þa maattu af þe-
im ollum, ſem þu Daglega ſier og med-
hondlar, ſiaa og merkia DRottens þijns
Guds Daaſamlegt Almætte, ſa ed þvilijk-
ar Skiepnur alleinaſta fyrer Ord ſijns
Almættis ſkapade, Lifande giorde og frioof-
gade, þar med maattu a þeim merkia O-
uñrædelega Speke og Vijsdoom Drott-
ens, þar hañ hvorre eirne Skiepnuñe, hef-
ur vijſlega ſkyckad og ſkamtad ſijna Art og
Tegund. J þridia lage maattu og Dag-
lega ſiaa hañs Fodurlega Myſkunarrijka
Goodgyrne i þvi hañ þeim ollum ſo rijkug-
lega Forſorgar, og lætur þær allar fiña ſitt
Fooſtur og Upphellde, Skiool og Hæle,
hvors vegna þier ber fyrer allt þetta, ad
prijſa, heidra og lofa hañ Almaattuga Vijs
doomsfulla og goodgiarna Gud og DR-
otteñ.

J odru Lage ſier þu ſvo ſem nockurt
Skyn og Liooma, Gudddoomlegrar Tign-
ar og Dijrdar, þvi ſo ſem hañ prijdde ſiñ

Hvorn-

Hvorndags Stool, þad er Himeneñ, med þeim fogru, og fagurt siŋngiande Fugl um, sier til Dijrdar, so hefur hañ og prijdt siŋna Footskør, þad er Jordena, med þeim lystelega leikande Dijrum og Fienade, sier til Virdingar.

Ottast þu og heidra þvilijkañ Tignarlegañ Herra, a hvors Footskør þu med þeim øllum stendur. Drottningeñ af Sudrenu furdade sig so uppa Skickunena i Salomonis Hwse, so sem uppa hañs sialfs Speke. Ongvu sijdur meigum vier forundra oss uppa Darsamlega DRottens Skickun i Heimenum; Hvar fyrer vær meigum Daglega seigia med David Ps. 19. Skickaner DRottens eru Riettferdugar, og gledia Hiartad.

2. Hier næst, hvad Mañsins Skopun Ahrœrer, þa er hun med øllu þvi sem þar ad hnijgur, so furdanlega Darsamleg, ad eg helld øll Mañsins Æfe hrockve ecke til, allt þad wt ad grunda og fyllelega ad rañsaka, sem þar uñ hugast, talast og rañsakast mætte,

mætte, mÿklu sijdur eirn lijtell Punctur Tijmans: Þo viliu̅m vid mijn Sal, hid sierlegasta, i ockar einfolldu Fræde, i Trauste DRottens, og med hans Rad-arhiallp stuttlega athuga.

J fyrstu, er þad Athugaverdugt, ad þo DRotten a Himnum, a þeim fyrre fim̃ Skopunarverks Dogunum, giorde marg-ar fagrar og forprijdelegar Skiepnur, þa verdur ecke i Ritningun̄e um̃geted, ad han̄ hafe þar um̃ fyrerfram̄, neitt Radslag hallded, ei helldur verdur tilgreint, af hv-oriu sierdeilis Tileinkudu Efne, i hvorre sierdeilis Lijking, eda hvad margar þær hafe af hvoriu Tage i Ondverdu vered skapadar, þo lijklegast meige synast, ad þetta Jardneska hafe mestan̄ Part af Jo-rdun̄e, og hinum þremur Elementunum, Vinde, Vatne og Ellde vered skapad, med þvi allra Elementan̄a Tegund, finst i ollum lifande Skiepnum, so synest og lijk-legt, ad Drotten̄ mune hafa allar lifande Skepnur i Porum skapad, eitt Kallkyns,

 an̄ad

añad Kveñkyns, sierhvort Par med siñe Tegund, hvorium hañ gaf Almaattugt Blessunar og Befalningar Ord, ad aukast og margfalldast skylldu. Eñ allt saman þetta verdur hid greinelegasta upptaled, i Mañsins Skøpun, og þar ad auke Herradæmesins styckun, yfer ollum Skepnum, og þess vegna vilium vid þetta stuttlega, hvad epter añad yferskoda i styttsta Maata.

Fyrst, DRotteñ Raadslagade uñi Mañsins Skøpun fyrer fram, vid sitt Ord og Anda, þad er: DRotteñ vorn JEsum og heilagañ Anda. Petta Raadslag hiellt nu su blessada Guddoomsins Preñing, ecke þess vegna, ad nockurt Tvijlræde eda Efaseme være i DRottens aasettu Raade, hvort ed eiliflega stødugt stendur, og med ollu er Oumbreytanlegt i sialfu sier, helldur vill hañ syna oss hvad myked honum være Hugad uñ Mañeskiuna, framar ollum ødrum Skiepnum, þvi uñ þad Raadslaga Meñ hellst, sem

sem þeim er mest umhugad, og þeir hellst vilia vanda. Þar ad auke sa DRotten vel fyrer, ad þo audvelldt være Mañen ad skapa, munde þo myklu kosta hañ, fra siñe fagurt skijnande Mynd fallen, aptur ad Endurleysa; Ecke þad ad DRotten, med hvikulum, eda Kvijdasomum Huga sæe epter þeirre Myskun sem hañ fyrer Heimsins Grundvallan Fyrerhugad hafde, Mañeskiuñe ad veita, i Sendingu sijns Sonar JEsu Christi. Mijn Saal, forundra þig helldur Gudrækelega yfer þessu DRottens Raadslage, eñ þad þu i Faavitsku smaasinuglega þar epter hnyser.

Gud Raadslagade um þijna Skopun, þvi honum var myked um þig hugad. Lættu þier af ollu Hiarta Umhugad vera, ad þu skopud Skiepna Guds, verder Skapara þijnum til Lofs og Heidurs, og fordiarfa þig ecke af sialfsdaadum, nie þad dyrmæta DRottens Verk a þier. DRotten sa hvad myklu kosta

 munde

